skyllduger/ Þar er eingen ödur Hialp eda Hugg un a ferdum fyrer oss auma og synduga Men/ utan ad vier jatum vora skulld/ og audmyktū oss fyrer Gude/ og girnust Nad og Myskun / Og bidium ad hann vilie alla skulld og allar vorar Synder upp giefa og fyrergiefa/ So sē Herran Christur sialfur kiennet oss i þeirre eye erlyking Matth. xviij. Cap. Af þeim Þien-ara huer ed skylldugur var um tiu þusund Punda / huerium hans Herra skienkte og upp gaf alla þa skulld.

Slyka Huggun eigū vier vandlega ad merk ka/og hana vel a Hiartad ad leggia/ Þuiad eff egar er þad omögulegt/ad vier getum stadist/ og Saluholpner ordeð. Þuiad a Skulldiñe/ þad er/a Syndenne er alldreige brestur neitnu hia oss/ vort eigenlegt Hiarta Vitnar yfer oss ad vier höfum ecke giört Guds Vilia / helldr opt honum i mote misgiört. Et þurfum vier ad huxa/ad Gud mune slyku gleyma/edur þad hann mune ecke lata oss standa vorn Reikning-skap. Verde þad ecke fyrr / þa skiedur þad a vorre Banasæng i Daudans tyd. Huert viliū vier þa flyia ? Vier erum skylldugier og get-um ecke betalad / So kunnum vier ecke ad um-flyia Guds Hendur / nie fyrer honum ad fela oss.

Enn þetta er vort einka Traust og hin stær-sta Huggan/ad vier giörum Jdran og yferbot og bidium Fyrergiefningar af Gude / So sem vor Lausnare kienner oss/i vorre Drottenleg-

Æ. re Bæn

re Bæn Fader vor/ Pa vill hann og er teidu-
buen/allar vorar Synder oss ad hyrergiefa/so
framt sem vier vænrum flyks til hans/og med
ofnudu Hiarta a hann treystum og truum.

Hver ed eige vill nu flyk vita vt af hyrer-
giefningu Syndanna/og eige vill sig hier med
hugga/ hann same mun zugua huggan i giegn
Syndenne sina/hvørke a Himne nie a Jørdu.
Hvørtu Gud oss forde Amen.

## Vitnisburder Heilagrar Ritningar
### vt af Syndana Fyrergiefningu.

Jannare Bok Moysis xxxiiij. Cap. Kall
ar Moyses til Guds og seiger so/ Drottenn
Drottenn Gud myskunsamur og nadugur/ Þol
enmodur og miøg lytilsamur og trur / Þu sem
audsyner Myskun j þusund Lidu / og fyrer
giefur Misgiørdernar Ranglætad og Synd
ernar/ Og fyrer huerium eingenn er saklaus/
Þu sem vitiar ranglætis Fedranna a Børnun
um/ inn til þridiu og fiordu ættar. Sia hier
huad merkelega Moyses bodar Nad og Mysk
un Guds.

Item ij Reg. xvij. Cap. Þar stendur/ad þa
Dauid feill i Hordom og Mandrap/ og konu
var syn Synd openberud/ þa skielfdist hn̄ / En̄
Spamadurenn Nathan sagde iafnsnart til hn̄s/
Drottenn hefur hyna Synd i burt teked.

Esaie j. Cap. Seiger Gud so/ Þuoed hrein
sed ydur / Taked ydar Illskubreytne i burt fra
mynum Augum/ Lated af illu/ læred gott ad
giora/

giora/ leited epter Riettenum/ hialped hinum nidur þryckta/ lated hinn þodurlausa riett skie og styrked Ecki unnar malepne/ Komed þa og atelied mig seiger Drottenn. þo ad ydar Synd er sie raudar sem Blod / þa skulu þær verda snio huitar/ og þo þær se blodrisa / þa skulu þær verda huitar sem Vll.

Ezech. xviij. Cap. Seiger Gud so / Ep sa hinu ogudlege snyr sier burt þra synum øllum Syndum/ sem hann heþur giort/ og varduetta er øll myn Bodord/ þa vil eg ecke minast þram ar meir allrar hans Illsku / sem hann heþur giort.

Esaie xliij. Cap. seiger Gud so/ Eg em hañ huer ed aþmaer þynar Misgiorder/minna veg na/ og ecke vill þramar meir þinna Synda minnast. Ecke seiger hañ/ vegna vorra Verka.

Matth. xviij. Cap. Þa S. Petur spurde/ huer su opt skal eg þyrergieþa mynum Brodur/ nægist ecke siøsinnum? Þa suarade Jhesus og sagde/ Eg seige hier ecke siøsinnum / Helldur siøtyge sinnum siø sinnum. Og vppa þau sømu Ord setur hann þram eina Epterlyking / med huerre hañ kiener oss/ad þyrergieþa giarnsamt lega vorum Naunga þad hañ heþur oss j mote broted/ þa vilie Gud og so þyrergieþa oss vorar Syndir. Luc. vj. Cap. Fyrergieþed og mun ydur þyrergieþast.

Huad þarþ hier margt vm ad tala? Mat thei xviij. Cap. Þa gieþur Guds Son Kristelegre Kirkiu Lyckla Vallded þyrer þa Grein

 og þar þyre

og þar fyrer / ad hun skal af leysa af Syndunum/ og þar fyrergiefa/ þeim sem jdrast.

Og i stuttu male ad segia/ Þa er Ritningen full med þess hattar Fyrerheit og epterdæme Þad oss verde Synderna fyrergiefnar og þær verde af madar/ vt af skiærre Nad Guds enn verdskulldanar Verkaña. Sa sem þssare hreinsan Syndanna heited hefur/ hann same er Almattugur/ hann gietur þad vel ent / Hann er vor elskulegur godgiarn Fader/ þar fyrer vill hann þad og feigen giöra. Og i vorre Fader vor hefur hann boded og skipad oss þar vm ad bidia.

Joh. xvi. Cap. Bided þa munu þier ödlast. Sanlega segie eg ydur / Hvers sem þier Födurenn bidied i mynu Nafne/ þad mun hann giefa ydur.

# Ellefta Höfudgrein.

## S. Iudas Thaddeus.
## Eg true Holldsins Vpprisu.

Þesse Truargrein hun geingur enn langt yfer allan Manlegan Skilning/ Med synu myrkna Skilnings Kiose kann Madur ecke skilia ne vnderstanda / ad þetta sama Holld kunne aptur ad koma/ sem so marguyslega og i margan handa mata/ ferst og glatast. Eitt drucknar i Sio eda Vatne/ annad vpp eta Fiskar/ þann

þridia

þridia Fuglar Loptsins/ Einn verdur brend-
ur i Ellde/annar verdur af Hrækuikendū eda
Mödkum uppeten. Hier kann Manleg Natt-
ura ecke ad skilia / huernen þad ma mögulegt
vera/ad þad sama Holld/ med sÿnum Lidt
um og Limum Beinum og Sinum Hwd og
Hörunde kunne aptur ad nyu ed samteingiast/
so ad Maduren fae aptur þau sömu Augu/
þær sömu Hendur og Fætur/ og alla Limu so
sem nu hefur hann.

## Og er þetta Meiningenn.

Eg true/ad eg mune med þessum sama Lijk-
kama/sem nu hef eg/og nu er daudlegur/a hin
um sÿdasta Deige upp vaktur verda fyrer Guds
Raust/aljka so sē Christur er adur fyrerfram
fra Daudum uppriesen.

Þesse Uppriesan framlidenna hun er eitt
mykell leyndur Domur Gudlegs Dyrdar Velld
is/huern ed Manleg skynseme kann ecke ad skil
ia/ Henne hæfer og ecke helldur þad ad skilia/
helldur alleinasta þessu ad trua/ Þuiad þetta
sama Holld/ med huörtu Mansins Sæla / nu
giörer gott edur jlle/ þad sama mun a hinum
sÿdasta Deige upp aptur vektast/ og vid Sæl-
ena aptur samteingiast/og verda so til samans
annad huört i Eilÿfre Sælu eda i Eilyfum
Pyslum.

Enn a Manlegum Lykama mun umbreyt-
ing verda. Hier i þessu Daudlegu Lyfe eru
vorer Lykamer alliskynns Vÿkleika underorpn-

Eiij. Nu. Nu

ner. Nu er Lijkamenn þwll/ohreinlegur/suart ur/þungur/seinn og latur/lijdur Högg og slög verdur ad hafa mykla þianing og Omak/ nær hann skal fara vr einum stad i annan / og er Veykur/Krankur/og forhindrar opt Sælina i hennar Verkum og Athøfnum/ Þar fyrer köll udu þeir Platonici mansins lijkama/Myrk/ uastofu og Gröf Sælar / og Daudan kölludu þeir eina Endurlausn og Frelsan i burt þad/ an. Enn a hinum sijdasta Deige fa munu Lij kamer Vtualdra med agiætum Dyrdlegum gafum verda prydder.

Sap. iij. Cap. Þar stendur so/ Þeir Riett/ latu munu skijna skiært/og sem Loge framlijda Matth. xiij. Cap. Þa munu Riettlater lioma sem Sol i þeirra Födurs Ryke.

J Vpprisunne framlidinna mun Lijkamen ei vera þungfær nie seirn / helldur liettfær og fliotur / So ad huar helst Anden vill vera / þar verdur og jafnsnart Lijkamen an dual/ ar. Þa munu vorer Lijkamer ecke framar meir vera Veyker krankter og siuker/helldur styrkuer og liettfærer//so ad eingen hlutur fær þa Lijk/ aman forhindrad eda jnne luckt / og hallded. Jtem Lijkamen mun ecke framar meir vera forgeingelegur/ so ad Menn meige sla hann/ stinga eda særa / Helldur er hann oskaddan/ legur/ so sem Solarennar Geysle.

S. Pall j Cor. xv. Cap. Hann gjörer eina aluarlega / diupa og rijkuglega predikun vm þessa Truargrein/ Styrkiande vora veyka Tru med

med einu Epterdæme / Huert ed hann tekur vt af Fræie þui sem sæd er j Akur/huert ed ecke vpp sprettur ne lifnar / nema þuiad eins ad þad deyie (ædur fyrr) Enn þegar þ er dautt og fued/þa jafnsnart kiemur af þui litla Kor ne einn fagur Auckxtur/og sierhuort smakorn hefur sinn Lykama/sinn Natturlegan Voxt/og er þa miklu fegra og prydelegra enn fyrr var þad. Slikt verkar Natturan daglega i skyns lausum Skiepnum/ Huersu myklu framar mū þa Skaparen allra hluta / veita og til leggia manlegre Skiepnu Dyrd/ Styrkleika/ Gæsku og Visdom / huerre hann hefur giefid eine os daudlega Sal epter Guds skapada?

Fyrr meir i Kristelegre Kirkiu þeirra i Borg eñe Charthago/ þa kuadu menn so ad Orde/ Eg true Vpprisu þessa sama Holldz. Sia/ þ Ord (þessa sama Holldz) hafa Menn þar vid auket/ad þar skyllde skilmerkelega og grein elega vottast/ ad ecke skal annad Holld vpp risa ad nyu skapad / edur þessu lykt / helld ur þetta sama Holld þesse same Lykame/ þar med eg nu sie og heyre/sit og stend/og giöre öñ ur Verk þuilykt/og huar jnne ad Sælen jdkar og æfer sig i öllum godum Verkum.

Þetta voittar Job xix. Cap. liostega / þar hann seiger/ Eg veit ad minn Endurlausnare lifer / og hann mun mig hier epter af Jördu vppueckia/og mun eg sijdar meir vmgiefast kssu mynu Hörunde / og eg mun sia Gud i mynu Hollde.

j Cor. xv. Cap. Þetta hid þorgeingelega mun i klædast þui oþorgeingelega/og þetta hid daudlega mun j klædast odaudlegleikanum. þessar Greiner votta liosliga ad sa same Lyk- ame og þ sama Holld skule aptr koma.

Enn þad skulum vier vita/ og vandlega merkia / ad þesse Truargreīn vt aþ Vpprisu þramlidenna/og aþ eilijþu Lijþe/hun er ein aþ þeim allra hæstu Hoþudgreinum alls kristelegs Euangelij Lærdoms. Þar þyrer er þar so opt og tydū/og so liosliga mz þerum Ordum vm talad/i nya Testamentenu / og opt tuiteked og þram sett.

Christus hann Predikar liosliga þar aþ Matth. xxv. Cap. Ad þeir Riettlatu skulu haþa eilijþan Fagnud/enn ogudleiger eilijþar Kualer og olydanlegar þijsler. Enn slijkre predikun sla marger i Vind / hirda þar ecke vm/ hallda þad þyrer Spott og Spe/ So sem ad giórer Pauen og hn̄s Cardinalar/þr hallda Vpprisu þramlidenna þyrer Skrok sogu / og henda sier Gaman aþ/þa talad er vm eitt an̄ad eilijþt Lijþ epter þta Lijþ. So er en̄ nu ad sia a allmórgum Bændum og Bumennum / ad þeir hallda þad meir aþ vana / enn þad sie þeirra aluara/ ad þeir true eilijþt lijþ vera/an̄ars mū- du þeir þar til elska / og ei stunda so kapp- samlega þessa Heims Næring / helldur stunda epter þui sem eilijþt er. Menn meiga kien̄a og Predika/hier aþ sem vill/ Ja/enn þott Christ ur Predikade sialþur/ þa helldur þo skynsemen

þetta

þeckia fyrer Heimsku.

Ed vier sem riettkristner erum / vier skulum vandlega grodursetia j vorum Hiortum þær huggunarsömu fögru Mals greiner hins gamla og nya Testamentis / vt af þessare Truar grein / ad stadfesta og styrkia vora Tru þar med.

## Vitnisburder Heilagrar Ritningar.

Þesse Truargrein vm Vpprisu Holldsins hun er grunduolld Matth. xxij. Cap. Þar ed Christur bevijsar Vpprisu þeirra Framlidnu / j giegn þeim Saduceis. Joh. v. Cap. Lijka sem Faderen vpp vekur þa daudu og lijfgar þa so lijfgar og Sonuren huern hann vill.

Og þesse Truar grein er ecke ad eins styrkt og stadfest med Ordum og Mals greinum / Helldur og so med Verkum. Þuiad þar fyrer er Guds Sonur sialfur fra daudum vpp risenn og aptur lifande ordenn / þar eru og marger Heilager med honum vpp risner. Og vppa þat ad Menn sie fullvisser þar vppa ad þad voru ecke Sion huerfingar / þa var Gudz Sonur hia synū Postulum og ödrum Heilögum j xl. Daga predikade fyrer þeim / og sat til Bords med þm̄ / Og vissulega þa hafa þær Eua og Saara og adrar Heilagar Kuinnur opt vered hia Maria og hennar Systrum ödrum / og giad þui synar Freistingar og Frelsaner og Guds Verk sem þær skied og hent hefur.

Slijk synelig Vmgeingne med Herranum Christo og

Eo.

Christo og ödrum fleirum / hun er vissilega Teikn og Merke og lios Vitnisburdur uppa þessa Tiuar grein.

# Tolfta Höfudgrein.

## S. Mattias.

## Og eitt Eilijft Lijf.

Þesse Grein kienner oss / ad epter þta Lijf þa sie eitt eilijft Lijf/huert ad öllum Guds Utvöldum er fyrerbued so sem Christus hann sialfur segir Matth. xxv. Cap. Kome þier Blessader mijns Födurs/ erfid þad Ryke sem ydur er fyrer bued fra Upphafe Veralldar et cet. Þui ad hier i þessu Lijfe höfum vier önguann samastad/helldur þa eigum vier ad leita þess okomna/so sem Pistillenn til Ebreos um talar/ xiij. Cap. Þar fyrer nær ed vier upprijsum af Dauda/ þa munum vier eilijflega mz Christo vera lifande/i Riettlæte/ Meynleyse og eilijfre Sælu og Saluhialp.

## Og er þesse Meiningenn.

Eg True vissilega/so sem Heilög Ritning kienner/ad epter þetta auma stundlega Lijf/ þa mune koma eitt dyrdlegt farsællegt og eilijft Lijf/huert ad aller truader Guds Utvallder skulu fa ad eignast med Christo ad eilijfu.

Mannleg Nattura hun er so öllungis forblind ad og fordiörfud fyrer uppruna Syndena/ ad [illegible] hun veit

hun veit eckert af þui eilÿfa Lÿfe/og af þrre saññarlegre Sæluhialp. Þar fyrer elsnar Heiꝛ lagur Ande þar vm fyrer oss alluÿda i Heiꝛ lagre Ritningu.

Joh. xvij. Cap. Seiger Christur/ Þetta er þad eilÿfa Lÿf / Ad þeir þecke þig alleina Gud ad vera / og þann þu hefur sent Jesum Christum. Joh. v. Cap. Sanlega Sanlega seige eg ydur/ Huer hann heyrer myn Ord og truer þeim sem mig sende/hann hefur þad eilÿfa Lÿf: Item Joh. xij. Cap. Huer hann hatar sitt Lÿf i þessum Heime/hañ mun vardueita þad til eilÿfs Lÿfs. Skoda Postꝛ ula Giörningana j. ij. lij. og xxiiij. Cap. Rom. vi. Cap. Dauden er Syndareñar verd laun/ Enn Nad Guds er eilÿft Lÿf i Christo Jesu Drottne vorum. Item Cor. xv. Cap. Og Thess. iiij. Cap. Vier munum alla tÿma hia Drottne vera.

Og þetta er auglioft og openbert/ad Guds Ord er fullt med slÿka Vitnisburde vm þad eiꝛ lÿfa Lÿf. Þad vottar/ad Gud vilie gefa sÿn um Vtuolldum eitt eilÿft Lÿf/enn þeim fyrer dæmdu eilÿfan Dauda. Og huad hellst sem þad gamla Testamentid til seiger med Figurū og myndum/ þ seiger og vt skyrer þid nya Testꝛ amented med berum og liosum Ordum.

Vt af Glede og Fögnude þess eilÿfa Himꝛ neska Lÿfsins/kann ecke nöckur Madur ad seig ia nie skrifa/ þuiad þad yfer geingur allann manlegan Skilning. So sē Esa. lxiiij. Cap. seiger

segier og S. Pall vottar. Cor. 5. Cap. Þat hañ so seiger/ Ei hefur nockud Auga sied/ nie Eyra heyrt og ei er i nöckurs Mans Hiarta komed þad Gud hefur til reidt þeim sem hann Elska.

## Conclusio,
### þad er
## Nidurlag og Ending Mälsins.

J þessum Tolf Höfudgreinum Postulegrar Truarjatningar/ er skilmerkelega og liosleg framsett sa riette Kristelege Lærdomur. Og slykur Lærdomur giörer eckert annad enn hañ vijsar og leider oss til Christum/og setur hann fram fyrer oss/ Vppa þad ad vier skulū styrkia og hugga vor Hiörtu fyrer hann i giegn Synd og Dauda. Þat skiedur med þessū hætte Vier skulum læra ad trua/ ad Christur sie einn sannur Almattugur eilyfur Gud med Födurnum og Heilögum Anda/ og ad hañ sie komen hingad til vor Mannañna a Jördena / og sie geten af Heilögum Anda/og af Mariu Meyu hingad i Heim boren. Og ad sydðstu sie hañ a Krossenum daeñ / ecke sinna misgiörda vegna (huad med honum var eingen Synd)helldr vorra Synda vegna, ad Gud Fader hañ sie fyr er þennañ Daudan Christi til Frids stilleur / og þar med sie öll vor skulld og Sekt bitalud/ Og fyrer Vpprisu Herrans Christi fra Daud

um/

um/ þaum vier ad komast til þess eilijfa Lijfs sins. Hann situr til Födursins hægre Handar/ fyrer bidiare vor og framestödu Madr/og hefur oss aftrekad og vtuegad Aflaat og fyrergiefning allra Synda þar med eilijfa Sæluhialp til Lijfs og Sælar.

Þanneinn hlyder nu öll Ritningen vppa Christum/ ad Menn læte hann ad þeckia / ad hann sie Guds Sonur. Þar fyrer/þa Christr spurde syna Læresueina ad/Matth. xvi. Cap. Huern þeir hielldu hann vera/þa vard Pietur fyrstur ad suara fyrer sig og hina adra Postulana /og sagde openberliga / Þu ert Christur Sonur Lifanda Guds.

Þad er ein stutt Medkienning/enn er þo rietter Grunduollur allrar Heilagrar Ritningar. Þutad þetta Orded (Christur) var alkunnugt Ord j hia þeim Gydingum / So nefndist þad Kuinnunar Sæde / Sem Höggormsins Höfud sundur meria atte / og fyrer huern allar Kyn kuisler skylldu blessast / sa ed hier a Jordu skyllde vppbyria eitt eilyfft Ryke / og hialpa Manneskiune fra Daudanum/og giefa henne eilijft Lijf. Sa hinn same(om huern Moyses og aller Spamennerner hafa vottad)ertu/ seiger Petrus/og fyrer þig skal slyk Nad skie allan Heimen. Þetta höldum vier / og þetta truum vier fyrer Læresueinar et ct.

Þer slijka jatning og medkienning/er Kristeleg Kirkia bygd. So seiger S. Pall j. Cor. j. Cap. Vier predikum Christū Krapt og Visku

Guds.

Guds. Og S. Pall hann vill ønguan annan Grunduoll lijda / enn Jhesum Christum / so sem hann hefur hann predikad/ ad hann sie fra Fødurnum komenn j Mandomlegre Natturu/ hafe Heimenn endur leyst / ad hann sie a Krosse daen fyrer oss / og Vppriſen / vort Høfud og vor Herra/sitiande til hægre Handar Gude/til huers/vier ecke fyrer vor Verk/ helldur vt af Nadenne komast kunnum / og verdum Salut holpner.

Þar fyrer skulum vier þessar Høfudgreiner vt af Jesu Christo trulega læra og a Hiartad leggia. Þuiad S. Pall seiger/ Þad er so asett ad i Christo skule bua / bæde holldlega og per sonulega giørvøll Fylling Guddomsins/ so ad huer hann ecke finnur Gud og vidurkiennet i Christo / sa hinn same hann finnur nie hefur alldre Gud fyrer vtan Christum/ þott han fare vpp vr Himnenum og ofan vr Heluijte / og vt vr Heimenum.

Þuiadhuer han stendur stadfastur hier a/ ad Jesus Christus sannur Gud og Madur/sie fyrer oss daen og vppriſen / Hønum bregdast ecke hinar adrar Høfudgreiner. Þuiad hier i þessare Greinenne er inne folgen allra Krist inna Manna Visdomur og heitra kunnatta/sa ed yfer geingur alla kunnattu og Vijsdom/og kallast ein gudleg andleg Viska/Speke og leynd ur domur / sa sem oss er af Himnum ofan op enberadz/og sa ecke er af Jørdune nie vr voru Høfde vaxen eda vpprunnen. Þar fyrer kienn

er S. Pall

er S. Pall i øllum stødum sinna Pistla/so liost lega og klarlega/ ad Christus sie Grunduöllur en/hæste Rykdomur og Høfudsuman/ af huer tum og i hu.tum aller hluter eru og finnast/ og i hønum eru aller Fiesioder Viskunnar og Vijsdomsins folgner

Hier i mote þessare Truargrein vt af Jesu Christo/þa hafa aller Villu menn sig sett / og hier a mote mællt og staded/ sydan Postulaña Tyd/og all.r hafa þeir hugad ad vinna Sigr a hønum. Enn þo eru þeir ad Sneypu og Skom ordner. Slykt hid sama vill og skie þa pista og adra motstødu Menn Heilags Euang eliñ/ þeir ed daflatanlega og vilíande / og af Heipt og hatre/og i mote eigenlegre Samuisku fram æda/og stryda i mote þssum Truargrein um. Og fyrst þeir ecke vilia hafa Jesum Christum nie hann medtaka fyrer eitn frame standara og fyrerbidiara/og Medalgangara/ þa munu þeir reyna hann og finna/eirn Dom ara a himum sydasta Deige.

Enn vor skynseme og Heimuren/þau kuña ecke af sier sialfum til ad fa Vndirstødu og skil ning þessarar Høfudgreinar/ þo þad sie fyrer þau lagt/ helldur standa þau þar a mote/ og hneyxla sig a slykum Lærdome/ So sem þad er fyrer þann gamla Simeon/adur fyrr fyrer sagt og spæd/ Luc. ij. Cap. Sm er/ad Jesus Christur (þad ny fædda Barnkorn) sie settur til Falls og Vpprisu margra i Jsrael / og til eins merkis/huertu j mote mun mællt verda.

Þar fyrer

Þar fyrer hefur Esaias löngu adur fyrr/ fyr er spad ad Christur skyllde vera einn asteytingar Steirn/og ein hneyxlūar Hella. Þuiad huer hann sig steyter sa steyter sig vissulega a þessū Steine/ Hann liggur fyrer huers Mans Footum/ og er burt kastadur af byggingar Monnum/ So sem Christus sialfur hann votter / af þeim cxviij. Psalme/Matth xxi. Cap.

Þar fyrer giefur S. Joh. Euangelista/ þetta hid glöggua Teikn og Merke/ Huar mz Menn meiga þeckia/ Antechristz Anda og adra fals Kiennefedur og Predikara/ Ad ef þe neita Jesum Christum. Þuiad so hlioda hās Ord j. Joh. iiij. Cap. Þar eru marger fals Spamenn vtgeingner i Heimin/ Þar af meige þier Guds Anda þeckia. Huer sa Ande sem ad vidurkiennet/ad Jesus Christur er komen i Hollde/hann er af Gude/ Og huer sa Ande sem ecke vidurkiēner ad Jesus Christur er komen i Hollde/hann er ecke af Gude/og þad er sa Ande Antechristsins/ huern þier hafed heyrt ad koma skyllde / og hann er nu alla reidu i Heimenum.

Slijk jatning og medkienning vt af Herranū Jesu Christo/hū reiknast fyrer Heimennm hin stærsta Heimska og villudomur. Enn þar a mote þa skal þetta vera vort stærsta og hæsta Traust fögnudur og hrosan fyrer Gude/ med ollum Heilögum/fra Vpphafe Kristnīnar/ og þetta eigum vier daglega ad jdka og læra/ Hier inne er falen og folgen oll vor Viska / Hann

ingia og

tngla og Sæluhiálp/ So ad huar þesse Truar grein er ordskud/ þar er allt hitt añad/ þar h.þ. er Madur þulla og alla Tilsku/ og kann riette lega ad dæma vm̃ allra handa Lærdoma. En þar a mote/ Huar þesse Grein er nidur þallenn/ þar liggiur og þallen öll Heill og hugg un og allur Vysdomur/ so ad ei kann nockur ad dæma vm neins mans Lærdom nie litnad.

Þessa litla Aminning / heþ eg þui setta j nidur lagi. þessarar Truarjatningar / So ad huer Madur meigi sia/ Huersu ad Fiand men og Motstandarar Christi/ vilia aþ plana og af ma/ þssa hæstu Hþuodgrein Heilags Euangelij og aþ Endurlausnenñe og vilia suipta Christ sinne Dyrd / enn rœna sorgþullar Samuitkur þessare einka huggun/ sem vier höþum j Jesu Christo. Gud Almattugur aþ styre þeim / og læte sinn Son Christum halda sinne Dyrd/ og syne oss sijna Nad og Myskun huer ad oss er j Euangelio þram boden Amen

# Ein önnur Vtlegging postu-legrar Truarjatningar/ skri-fud af D. Martino Luthero.

## Fyrsta Greinen.

F.

## Eg true a Gud Fodur Almattug-
## ann/Skaparan Himens og Jardar.

Þad er ad skilia.

Eg afneita óhreinum Anda/allre Skur-
goda Villu/ allre Fiólkynge og hia trunad-
aullum.

Eg set myna Tru og Traust a óngvan Ma-
a Jórdunne/ei a mig sialfan/edur a mitt Vald-
Visku/Audæfe/Riettlæte/edur a nockurn hlu-
þann eg hefe.

Eg treyste a óngva Skiepnu/huerke a Himm-
ne a Jórdu.

Eg set myna Tru og mitt Traust alleina-
og einungis a osynelegan einasta Gud/ sa sem
skapad hefur Himen og Jórd/og alleina er y-
er óllum Skiepnum. Þar a mote er eg ohræd-
ur og oskelfdur fyrer allre Illsku og vondsk-
Diófulsins/og hans Erendreka / Þuiad minn
Gud er yfer þeim óllum.

Eg True ecke ad sydur a Gud / þott e-
verde af Mónnunum yfergiefen og ofsottu-
Eg true samt a Gud / þott eg sie Fatæku-
fyrerliten/fakrodur/olærdur.

Eg true eige sydur a Gud / þo eg sie aum-
Syndare. Þuiad þesse myn Trua hlytr og -
ganga yfer alla hlute/ bæde þa sem eru/og e-
eru/yfer Synder og god Verk/yfer alla hlut-
so ad hun Truen hallde sier hreinne og skiær-
til Guds/so sem þ fyrsta Bodord bydur mie-

Eg girnest eckert Teikn af honum/ad þreif-
þar

hans her med.

Eg true stadfastlega a hann/ þott hañ þreste og vndan drage/og late sitt Fullting ei so snart fram koma. Eg set honum önguan Skamt eda afnedan tyma fyrer/ Huenær / eda med huer-su mote þad skule skie/helldur set eg þad allt med einne riettre stödugre Tru inn til hans Guddomlega vilia.

Fyrst hann er Almattugur / Huad ma mig þa bresta? Þad hann kunne ecke adveita mier og gefa?

Fyrst hann er Skapare Himens og Jardar/ og einn Drottenn og Herra allra Hluta/ Huer vill þa nockurt Tion edur nockurn Skada mier giora? Ja / Huernenn skyllde þa ecke aller hluter mier ad godu verda/og mier þiena? Ep hann ann mier Gods/hann huertium aller hlut er eru hlyðner og vndergiefner.

Med þui þa ad hann er Gud/ þa kann hañ og veit vel/ huernen hann skal breyta vid mig og höndla/so ad best hare.

Med þui hann er Fader/ þa vantar hañ ecke Viliañ/og hann giörer þad giarnsamlega.

Med þui þa ad eg hef sodan Tru og Traust a honum/og efa ecke i nockurn mata / þa er eg sannarlega hans Barn/hans Þion og Erfinge eiliflega/ Og þetta mun so skie sem eg true.

# Annar Greinen.

## Og a Jhesum Christum hans einngieten Son / vorn Drotten.

Pad er ad skilia/ Eg true ecke alleinasta þad/ad Jesus Christus sie sannarlegr eingiet en Gudz Son/ i eiñe eilyfre Guddomlegre Natt uru og Veru/ an Upphafs/ fyrer alla Eilyfd omumræðelega af Fódurnum fæddur. Helldr og einnenn ad honum sie af Fódurnum aller hlut er undergiefner/ so og epter Mandomenum/ þa er hann settur einn Drottenn yfer mier og óllum hlutum / huerta hañ hefur med Fódurnum epter Guddomenum giórt og skapad.

Eg true / ad eingenn giete truad a Fódurenn edur til Fódur sins komed med sinne Skynseme/ Visku edur nockrū Verkū/ a Himne eda Jordu/ Helldur alleinasta j Jesu Christo og fyrer Jesum Christum hans eingietenn Son/ Pad er ad skilia/ Fyrer þa TRU/ sem þui truer/ad Gud vilie vera oss myskunsamur og nadugur/ vegna sins Sonar og fyrer hañs skulld alleina.

# Þridia Greinen.

## Sa sem gieken er af Heilógū Anda.

Pad er/ Eg true obrigdanlega/ ad hann sie mier til gagns og goda af Heilógum Anda giet en/ fyrer vtā allan manlegan til styrk og holldlegan Verknad/ an holldlegs Fódurs og manlegs

legs Sædis/ Vppa þad/ ad hann minn Synd samlegan/ Holldlegan/ Saurugltegan/ Fordæmelegan Gietnad (og allra Riettruadra) hreinse og andlegan giöre/ epter nadarsamlegum synum vilia/ og sins almattugs Födurs.

## Fæddur af Mariu Meyu.

Þad er / Eg true/ ad hann sie minna vegna og mier til goda fæddur af hreine Meyu/ an nockrar Spillingar hennar Meydoms/ Holldlega og andlega. Vppa þ/ad hañ epter Skrifan Födurlegrar Myskunsemie/ mijna Syndum spillta og fordæmanlega Fæding og allra slä truadra Blessie/ hreinse og saklausa giöre.

# Fiorda Greinen.

## Pijndur vnder Pontuerskum Pilato Krossfestur.

Þad er/ Eg true ad hann sie fyrer mijnar Synder og allra Riettruadra Manna pyndur og Krossfestur/ oc hafe þar med allar Pijnur og Pijsler blessad/ og giört þær ecke ad eins oskadsamlegar/ helldr heilsusamlegar fyrer synu Auglite.

## Deyddur og Grafenn.

Þad er/ Eg true ad hann sie daen og grepturadur/ og ad hann hafe mijnar Synder og allra þeirra sem a hann trua/ med öllu deydt og grafed/ þar

Fiij.

ad/þar med hann likamlega Dauda deydt og dreped/ og giört hann med ollu oskadsamlegan nytsamlegan og heilsusamlegan.

## Fimta Greinen.

Nidur stie hann til Heluijta.

Pad er/ Eg true ad hann se til Heluijta ofan stigen/ ad yfer vinna og hertaka Diöfulen og alla hans Mage/ hans Slægd og Illsku/ minna regna og allra Riettruadra / So ad Diöfullen kunne ecke hier epter neinn skada ad giöra/ og hefur mig Frelsad fra Heluijtis Pijnu og Fyrerdæmingu.

A þridia Deige reis hann vpp fra Daudum.

Pad er/ Eg true ad hann se vpp risen a þridia Deige fra Daudum/ til ad giefa mier og öllum riett truudum eitt nytt Lijf/ og hefur mig so med sier i Nad og Anda vpp vaked/ til/ ad syndga ecke framar meir/ helldur ad þiona sier alleina / i allskyns Dygdū og Mankostum / og vppbyria so ad vpp fylla Guds Lögmal.

## Siötta Greinen.

Vpp stie hann til Himna / situr til Hægre

## Hægre Handar Guds Födurs.

Þad er/ Eg true hann sie til Himna upp stigen/ og ad hann hafe af Födurnum medtek-ed Dyrd og Vald yfer alla Eingla og allar Skiepnur/ Og situr so til hægre Handar Gudz/ Fader / Hann er einn Kongur og Herra yfer öllū Audæfum Guds a Himne/ i Helvijte/ og a Jördunne. Þar fyrer kann hann ad hialpa mier og öllum Riettrudum i öllum naudum/ og aullum vorum Motgange og Ovina Of-soknum.

# Siøunda Greinen.

## Þadann er hann komande ad dæma Lifendur z Dauda.

Þad er/ Eg true ad hañ mune þadan koma af Himnum ofan/ a hinum sydasta Deige til ad dæma Lifendur/ þeir sem þa eru Kvikir/ og Dauda / þeir sem þa eru Framlidner. Og ad aller Menn aller Einglar og Diöflar skule þa koma fyrer hans Domstol/ og sia hann holld-lega / Þa mun hann mig og alla riett truada endurleysa fra þeim likamlega Dauda/ og fra öllu illu/ og eilyfar Refsingar leggia / a alla syna Ovine / og Frelsa oss eilyflega fra öllu þeirra vallde.

# Attunda Greinen.

## Eg true a Heilagan Anda.

Þad er / Eg true ad Heilagur Ande er ecke ad eins sannur Gud med Födr og Syne/helldr ur og þad/ad eingenn gietur nie kann ad kom aſt til Födursins pyrer Christū/til hñs Lipnadr ar/Pijnu/Dauda og Forþienustu/edur nöckud ad ödlast og hreppa þar aꝑ / nema þulad eins Heilagur Ande hann epsle þad og verke. Med huerium Heilaga Anda Faderen og Sonurenn mig og alla syna hrærer/vpp vekur/kallar/og pyrer Christum og i Christo giörer Lipande/ Heilaga og andlega/og leider þa so til Födurs sins/ Þuiad þesse Heilagur Ande hann er þad huar med Gud Fader pyrer Christū og i Christo alla hlute verkar og lipande giörer.

# Niunda Greinen.

## Eina Heilaga, Kristelega Krikiu.

Þad er/ Eg true ad Gud/vegna sins Sonar Jesu Christi/pyrer þann Heilaga Anda/ hape sier ætijd hier a. Jördunñe/allt til sijdasta Dags eina Kirkiu/ Þad er/Söpnud margra Manna huerier þad Heilaga Euangelium medtaka med Trunne/og sa Heilage Ande er pyrer þad Hei

laga

laga Euangelium kröptugur med mörgum / i þeim sama Söfnude / og giörer þa Erþingia eilyþrar Saluhialpar. Og ad þar sie eingen eþe a/huar og huilykt ad su rietta Guds Kirk ia sie / þa heþur Gud til sett og skickad nöckur ytre syneleg Teikn / huar aþ þesse Söfnudur þeckiast kann / og þra skiliast ollum ödrū Pioðum og Mönnum / Einkum sem er / sannur Omeingadur Euangely Lærdomur og þissar Tru argreiner sem samsettar eru i Symbolo Apostulorum / og i þeirre Messu Credo (er vier köllum) og þar ad eru þau kristelegu Heilögu Sacramenta Skyrnarennar og Holldsins og Blodsins Christi / og Aþlausnen et cet. Enn Heidingiar Tyrkiar og adrar þioder þeckiast ecke Gude / og Erþa ecke eilyþt Lyþ / þott ad þr haþe þagrar Dygder og mykla Mankoste. Þar er eingenn þeckur Gude sa ed þyrirlytur og þorsmar Guds Son / Þuiad so hlioda Guds oþbrigdanleg Ord / Huer hann truer ecke a Sonen / hann skal ecke sia Lyþed / Item / Eingenn kiemur til Födursins nema alleinasta þyrer Sonenn.

Þar þyrer / Med þui ad Gud vill alla tyma haþa sier eina Kirkiu / og vill ad vier sie um Lider og Limer þeirrar sönnu Kirkiu / þa true eg visselega / ad eg sialþur sie ein eþa ? einn Limur og Lidur þessarar sannarlegrar Kirkiu / Og ad su Nad sem Gud heþur loþad og heited Kristelegre Kirkiu / þa enu sömu vilie hann mier og gieþa / mig Bænheyra og Nadar

Sv. samlega

samlega med mier verka.

## Samneyte Heilagra.

Þetta Ord / er ein vt skyring fyrer farande Orda / hvernen þetta Orded Kirkia skal skiliast / einkum so / ad Kirkia merker eke Hws nie Musterere / eige Pava nie Byskupa / helldur Samneyte / þad er / Söfnud Heilagra / Þad er þeirra Manna sem jata og vdurkienna sannan Gud sa ed sig hefur fyrer sitt Evangelium openberad / og sinn Son Jesum hefur vt sent / þeir ed medtaka hans Evangelium og akalla hann sanna Gud. Þuilyka Menn kallar þsse Grein Heilaga. Þuiad a medal þuilyks Safnadar eru alla tyma nockrer vtualder og Heilager / þeir sem til Guds eru snuner. Og i þessū ordum er so miked sagt og jatad sem i þeim fyrer farande / sem er þetta. Eg true ad Gud hafe sier alla tyma hier a Jördu eitt eiged Folk / Einkum / alla Menn / huar helst sem þeir eru þeir ed þad Heilaga Evangelium medtaka mz Trunne / Og ad Gud hann vilie ætjd aullum Limum þessa Folks / samlega veita og gefa syna Nad / so sem hann hefur heited og lofad sinne Kirkiu / af ad þr ꝥ af Hiarta girnast.

Eg skal og stadfastlega þui trua / ad eg sialfur sie einn Lidur og Limur þessarar einnrar sannrar Guds Kirkiu. Og su sama Nad sem Guds Kirkiu er lofud og tilsögt / hun skal og so mier sialfum veitt og gefen verda.

Tiunda

# Tiunda Greinen.

## Fyrer giefning Syndanna.

Pad er/ Eg true ad i þessum ..ma Søfnud ude/eñ huergc annarstadar / sie fyrer giefning Syndanna/og fyrer utan þessa Kirkiu/þa er eingen hialpar von til Synda fyrergiefningar/fyrer nøckur god verk/huørsu mørg og mikil sem þau eru eda vera kunna.

Enn huer hann er i þeirre sønnu Gudz Kirkiu/ Þo ad hann sie fallen alla reidu / þa fær hann þo vißelega fyrer giefning sinna Synda so opt sem þad hann snyr sier aluarlega til Guds. Þar fyrer hefur vor Lausnare Jesus Christus Lykla valldeð til sett/Matth. xviij. Cap. Huad þier leysed a Jørdunne þad skal leyst a Himnum / Item Matth. xvi. Cap. Huad þu leyser a Jørdu skal a Himnum leyst vera.

# Ellefta Greinen.

## Holldsins Vpprisu.

Pad er/ Eg true/ad þeir Daudu mune Vpprisa / j huerre Vpprisu allt Holld mun fyrer þann sama Heilaga Anda vpp vekiast/ þad er/aller Menn med Sælu og Lykama /Vondu

er og

er og Goder. So ad þad sama Holld huert ad Dæd er og Grafed og Funad / og med huerium hætte sem þad hefur varit / þa skal þad aptur koma og lifande verda.

## Tolfta Greinen.

### Og eitt eilijft Lijf Amen.

Þad er / Eg true ad epter Vpprisuna munu Helager þa ad ödlast eilijft Lijf / enn Syndugter eilyfan Dauda. Og eg vissulega og fastlega true og treyste ann alls efa / Ad Faderenn mune fyrer sinn Son Jesum Christum vorn Drotten med þeim Heilaga Anda / lata mig skie allt þetta / so ad þad sie Amen Amen / þad er / sannarlega og vissilega satt.

## Hier epter fylger ein ogiætleg Amiñing til Bæna akallsins / Og Vtleaging yfer þau Orden Christi / Joh. xvj. Cap.

### D. Marth. Luth.

Sanlega sanlega seige eg ydr / huers

Þier

Þier bidied Fodurenn i mijnu Nafne / þad mun hann giefa ydur/ Hingad til hafe þier einskis beded i mijnu Nafne Bidied þa munu þier medtaka / so ad ydar Fegnudur verde fullkomlegur.

Þetta er ein agiæt Aminning Herrans Christi til sijna Læresueina/ vm Bæna akalled. Þuiad næst Predikunar Embættenu / þa er Bæna akalled su ædsta Guds Þionustugiord hia Kristnū monnum. Þessa Amiñing giorde Herra Christur/ yfer Bordum vm Kuölldmaltydena/ skam̄t epter þau Ord sem hann sagde til Lærisueinaña/ Þier erud hrygguer vegna mins burtfarar/ Enn þat er vm eina litla stund/ ad giöra/ Eg skal sia ydur aptur/ og ydar hrygd skal snuast i Fögnud. Epter þa Huggan keimur nu þesse Aminning til Bæna akallsins/ og þetta hlyder miög vel til samans. Þuiad þegar einn Kristen Madur hann er staddur i Angist/ Sorg/ Neyd og Motgange/ eda huada Olucka sem a ferdum er / Þa er eckert slykt Traust og eckert annad Ræd/ vtan ad giefa sig til Bæna akallsins/ og bidia Gud vm Hialp.

Þetta kienner hier Christur synum Lærisueinum/ Og oss/ ad vier i motgangs Tymanū ecke gleymum Bæninne/ Og hann seiger þeim miög hugganarsamlega / ad þeir skulu vera i slyku efne diarfer og ohrædder/ þuiad (seiger

hann)

hann) Ecke seige eg ydur ad eg nume bidia Sóduren pyrer ydur/huad Faderen elskar yd ur sialpur/ap þui þier elskudud mig/og Tru dud ad eg være ap Gude vtgeingen.

Sannindе eru þad/ Christur lætur ecke ap/ Hann situr til hægre Handar Fódurins ogbid ur pyrer oss/so sem S. Pall seiger Rom. viij. Cap. So vitum vier og eirnen ad hans Bæn er alheyrd/su sem hann bad pyrer sinne Kirkiu og oss aumum syndugum Mónnum i sine seinasta Kuällldmaltijd/ og sydan þar eptera a Krossenum/ Og su sama Bæn varer og skal vera kröptug/allt til Heimsins enda. Enn þier þurpet ecke( seiger Christur )styrkar Bænar vid ad eg pyrer ydur bidie/huad þier kunned sialp er Fóduren ad bidia / Þier skulud og ecke þad epa/ydar Bæner skulu verda bænheyrdar. Þui ad minn Fader elskar ydur / ap þui þier elskud mig.

Þetta skal ecke so skilia/so sem ad skylldu Menn ecke hugga sig vid Christi Bæn / Helldr so/ Vier skulum ecke apvirda vorar eigen Bæn er/med þui vier elskum Christum. Huad so er til sett/ og þetta skulum vier vandlega merkia og læra / ad huer hann hepur girnd og ást a Christo/þann hinn sama elskar Faderen/og so kiær er hann hónum ad hann vill hann Bæn heyra. Huar eru hier þr ogudlegu Papistar huer ier ed vijsa oss til pyrer bonar og prame stódu Heilagra Manna?

So huggunarsamlega vpphuetur leider og
lockar

Vockar Christur oss til Bænarennar / ad hann hafe fyrer sinn Dauda og Burtfør af þessum Heime/ vtuegad og afreckad oss einn lidugan og frialsan tilgang til Fødursins / Ad huar vier erū vtan Kirkiu edr jnnan/ a Sio edr Lande/ a Akre edr Eing/ vte eda jnne (ef vier erum all-ars Kristner/ og elskum Christum) þa megum vier nu med einu Hiarta / ganga fram fyrer Gud i Himmerijki/ tala vid hann/ og bidia hann vm allt þad sem oss aliggur/ Þurad til slykrar Bænar þarf eckert annad/ vtan slykt Hiarta / sem so kann ad mæla og segia / Fader Himneskur / eg veit ad þu elskar mig / af þui eg elska þinn Son minn Lausnara Jesum Christum/ J þessu Trauste vil eg bidia / Ei þad eg sie Heilagur/ maklegur nie fromur/ helldur af þui eg veit / ad þu vegna þyns Sonar Jesu Christi villt giarnan veita og gefa þ / J þins Nafne geing eg nu fram fyrer þig/ og bid þig Og ef eg bed þar vm/ þu munt mig bænheyra huerninn sem eg er minnar sialfs Personu vegna. Þurad þar skal sier huør Kristen Madur vakta sig fyrer/ og varast þad/ ad draga vndan Bæna akalled/ þangad til hann þikest hreinn og vel skickadur þar til / So sem Dioffullenn hann plagar opt ad hindra oss mz slykum Hugrenningum/ Og lætur oss huxa/ vier sieum nu ecke so skickanleger þar til / vier verdum ad giøra þad og þad ædur/ sydan þar epter kunn-um vier ad bidia hindranarlaust/ Og huer hn̄ fylger slykum Hugrenningum/ og lætur so hefta

sier og

fier og hindra sig fra Bænenne. Hulad Diöf
ullenn hann er hreckuÿs/og stundar þar oppa
ad hñ giete m3 hinu og ödru mote bindrad off
þar fra. Þar fyrer meigum vier Bryma off/
og vakta off vid hönum og leta hann ecke hind
ra off fra Bænenne helld: jafnsnart sem aligg
ur/ og Neyden er fyrer Höndum / þa skulum
vier so hura / Nu.er su rietta Bæna stænd /
Þott eg sie ecke skickanlegur nie verdugur/Gud
hann kann vel ad giöra mig skickanlegan og
mackleg an / Þuiad eg veit hann elskar mig
Christs vegna / enn ecke minna vegna / edur
fyrer myn god verk.

Þetta vill vor liufe Lausnare Jesus Christ
ur hier hafa/ad vier skulum vera Bænrætner/
enn ecke talsflulauser / so sem þar hirdulausu
Manneskiur/sem i hella sex eda siö Daga/ ecke
lesa eina Fader vor / Eda þeir ed seiga so /
Matur og Drykur smackar eins/huert Menn
bidia edur ecke/ Ep þu ert Kristen / og villtu
vera Kristen/ þa fordast þu slykt Bænrækslu
leyse. Giör þyna Bæn minsta Koste Kuölld
og Morna/og fyrer Maltyd og epter/og seig
so/ Fader vor / Helgist þitt Nafn et ct. Þui
ad vier Kristner Menn eigum oafslatanlega
ad bidia/ Verde þad ecke med Munnenum(so
sem þad og vier ecke kunnum alla tyma ad
giöra) þa skal þad þo vera med Hiartanu/
Þuiad i sifellu a hueriu Augabragde / þa a
Hiartad þess ad oska/ad Guds Nafn helgist/
ad hans Ryke til kome/ad hans Vilie verde/
Item/

Item/ad Gud villde giefa Frid i Lande/goda Vedrattu/ Heilsu og Heilbrigde etc. Þessa oskar huer Kristen Madur alla tyma/a huere stundu i synu Hiarta / Og þo hann alla tijdu tale ecke þar vm / þa er þo ecke annad hon um i Hiarta. Þetta heiter ad bidia andlega/ oaflatanlega / og med Hiartanu. Og slijkur Banahattur er oss miøg naudsynlegur / Þui ad vier erum jafnlega staddir i Voda og Haska / og erum ecke eitt Augabragd obraeddir fyrer Dioflinum: og voru eigenlegu Hollde/ad þeir felle oss ei i Skóm̄ og Synd.

Enn jafnframt slijkre Hiartans Bæn / þa skal su munlega Bænen fylgia med. Enn huer sem þetta Bænenne skal hattad vera / þad kiennir oss Christur hier og seiger/ þier skulu ad bidia i mynu Nafne. Item/Fadirenn elskar ydur/af þui þier elskid mig / og truid ad eg sie af Gude vtgeingen. Þegar Personan Mannsins er nu so til buen og skickud/ad hann truir a Christum/sa same Madur hann er nu þa þegar eirn riettur andlegur Kiennimadur i synum riettu Kufle og prestlegum Skruda/ Og þar brestur ecke annad a / enn ad hann late Munnen vpp gladlega/og bidie vm eitthuad / þad honum þiker sier sialfum eda ødrum samkristnum aliggia/ og seige so / Drotten / Þess þarf eg vid/ Þad vantar hann/ Gief oss þad fyrer Christi saker.

Enn vier høfum nu sierdeilis talad vppa soddan Tyd/ ad lifa / ad ecke skorter Neyd og

Motlæte daglega/og er Dag fra Deige/þyngra og þyngra þott vier alla tyma miög bidium. Þuiad þrifter Diöfullen Lygare og Mordinge. Med Lygonum vill hann Guds Ord nidur þrycka/ Med Mandrape vill hann allskyns Ofrid og Oroa i Kristnenne vppvekia. Þar fyrer til: Pauen og so Tyrken ecke Huld/ og adrer Kristinmannar Ovinar þeir sem eru a mote Guds Orde. Vier reynum og so/huilyka Neyd og þreyngiande Naudsyn / einn og hier huer þeþur sialfur/þo ecki være su almenneleg Neyd. Þar fyrer höfum vier nog tilefne/a allar sydur/og noga Naudsyn og Þörf ad giöra vorar Bæner. Enn huar hann kann ecke ad þura vm þessar Naudsynjar allar/sa take sier fyrer Hendur þa Heilögu Fader vor. Hun hefur sid Bæner/huar inne allar þreyngiande neyd er og aliggiande Naudsynjar eru inne folgnar.

# Vt af Bæna akallenu
## til Heilagra.

Rieth Bæna akall til Guds/so sem hann h
ur kient og openberad sialfur/af sinne Mill
er þad allra naudsynlegasta Verk allra Me
og sa Hæste og stærste Visdomur i þessum Hei
Og þetta Verk giörer greinar mun a mille G
Kristnu og allra annara Manna / sem ad e
Heidingiar/Gydingar/Tyrkiar et ct. Þar f
er ligg

er liggur þar ſtor magt/ad kunna rietteléga ad tilbidia Gud/og ad vita miſmun a mille hins rietta Bæna akallſins og þeſſ ranga.

Enn þetta er þad rietta Akall til Guds/ huer ed ſig hefur openberad fyrer ſinn Son Jeſum Chriſtum i ſynu Hellaga Euangelio / ad akalla Gud/og tala vid hann/og ganga ſo fram fyrer hann/ad þu viter þad/ad hañ hefur ſialfur ſett og ſkickad einn Medalgangara a mille ſyn og vor/ſem er ſinn Son Jeſu Chriſtum/huer ed þa hrædelegu Guds Reide i giegn oſſ hefur vpp a ſig teked ſtillt og bored/ hann ſame er ſettur og ſkickadur og vygdur til eins eilyfs Kieñemans / og Medalgangara / ad hann alla Tyma/ fra Vpphafe/ epter Adams Fall/ fyrr og ſijd/ allt til hinnar ſydóſtu Endurlauſnar Hellagra/ hafe vered/og ſie/ og vilie vera vor Fyrerbidiare og frameſtódu Madur hia Fódurnum.

Vid þenna einka Frameſtódu mann og Fyrerbidiara ſkulum vier hallda oſſ/ og koma ſo fram fyrer Gud/ ad vier truum viſſelega/þad ſiſe Guds Sonur Jeſus Chriſtus ſtande frame fyrer ſynū eilyfa Fódur/ſiae og þecke vor Hiórtu / vora Anduarpan og vort Akall. og þa vier bidium og akollum Gud/ þa er hann og eirneñ Fyrerbidiare medur oſſ. Þar fyrer ſkulum vier fram ſetia hans Nafn i vorum Bænum/ og bidia Gud/ ad hann vilie þenna Medalgangara / Jheſum Chriſtum aliþta/ og hans Fyrerbon og Forþienuſtu/og lata oſſ hñs niotta/ og ad

a/ og ad hans vegna vilie hann giefa oss Synd-
anna Fyrergiefning / syna Nad / Heilagann
Anda/og þad eilyfa Lyfid/ Og ad hann vilie
hialpa oss i øllum Naudum og Motgange i
þessu auma og falluallta Lyfe et ct.

Vier skulum og einnen sialfan Guds Son
Jesum Christum medalgøngu Mann. Akalla
og til bidia / ad hann vilie sialfur vera oss
Myskunsamur / og bidia sinn eilyfan Fødur
fyrer oss/og med hønum hialpa oss/so sem hā
sialfur hefur sagt/ Komed til myn aller et ct.
Item allt huad þier bidied i mynū Nafne /
Þad er/ J þui Traustie/ ad þier munud myn
ad niota/þad skal ydur veitast et ct.

Og nær þu kiemur so fyrer Gud/og þenna
medalgøngu Mann mille Guds og vor / þa
blytur þu ad hafa þad Hiarta med þier / sem
sier vill trua til Guds/ Þad er / þu hlytur ad
hafa aluarliga Hiartans Jdran/og skallt þui
trua og treysta/ad Gud vilie vera þier Nad/
ugur/ og lyta til þyn / og Bænheyra þig / og
hialpa þier et ct. Og þu skallt Þolinmodliga
Guds hialpar vænta/ og efa ecke nie misstreysta
Gude.

Þetta eru diuper og Haleiter hluter/ huertia
Madur hlytur ad læra/af daglegre reynslu/ i
daglegre Andurarpan og i Hiartgronu Bæna a
kalle til Guds. Og alla tyma eru þar nockrer
sanner Guds Þionar / sem Gud so riettelega
kalla/og hier hafa nockurn Skilning a.

So seiger S. Pall til Timoþ. Þar er ei ut
an einn

an einn medalgöngu Madur mille Guds og
Manna/ Jesus Christus/ sa sem sig hefur gief-
ed til Endurlausnar fyrer alla.
Og Johannes seger/ Vier höfum einn Fyr-
erbidiara hia Födurnum/ Jesum Christum þañ
riettlata/ hann er Forlykaren fyrer vorar
Synder.
Guds Son seger sialfur/ Huad þier bidied
Föduren i mijnu Nafne/ þad mun hann giefa
ydur. Þesse Guds Sonur hañ er sa einka med
algangare og ædste Kiennemadur/ huer ed framme
stendur fyrer þeim eilyfa Födurnum/ og all-
eina jnn geingur i þad allra Heilagasta Sanct
a Sanctorum/ so sem þar stendur til Ebreos/
og einnsaman enn einginn annar koma kann i
þad heimuglega Guds Raad. Þesse hann flyt
ur vorar Baner vora Hiartans Anduarpan
fyrer Gud. Vid þennan ædsta Kienne Mann
hliotum vier ad hallda oss/ og i hans Nafne
og hans vegna ad bidia um Naad og Hialp/ og
þar epter vona og vænta.
Þetta Lioseð ut af Gude/ og af þeim einka
Medalgangaranum Guds Syne/ og af Trune
utskölnade fullsnart i Heiminum. Heidnar
Þioder/ og nær aller Men i Heime eru hrygge-
lega fallner fra sönnum Gude/ og þeim einka
Medalgangara. Enn þo ad naturleg Skyn-
seme vite vel i hia mörgum/ ad þar er ecke ut-
an ein Gud sem hialpa kann/ þa akalla þo
aller Menn i Neydene nockud annad/ þad sem
þeir hallda fyrer Gud. Þuiad huer hann hefr

 ecke

ecke Guds Ord/hann setur og dicktar sier marg hattada Gude / og margunslega Hialpara og Medalgöngu menn/og villest langt fra Gude. Pannen hielldu þeir Heidnu sumer Solena fyrer Gud / sumer Tungled / sumer þær og þær Stiornur. Og epter þui sem huer hafde Naudsyn / so hliop hann til eins og annars Afguds. Og af þui Menn voru fallner fra þeim riettu sanna Gude/ og þeim einka Medalgangara/ og höfdu mist Guds Ord/ þa vrdu þeir sydan so blinder og galder / ad huer og eiñ diktade sier nya Afgude og hialpar Meñ/ so sem Heidingiar hrædelega giördu og tilbadu. Jouem/ Martem/ Venerem / og hier i Nordr Alfuñe Por Odenn og önnur Trollmenne.

Eins og alyka hefur pad skied og tilgeingt ed/ a medal þess Folks sem Kristner kalladust. Þeir hafa ecke riettelega þeckt Guds Son/ og et halldet hann fyrer Medalgöngumann og Fyrerbidiara / helldur fyrer eiñ hrædelegann strangann Domara / og hafa þui hlauped til Mariam/til S. Peturs/ til S. Jacobs / til S. Aunnu og annara framlidinna Manna / og hafa giört þa ecke alleinasta syna Medalgöngu Menn og Fyrerbidiara/helldur og eirn en hialpar Menn. Og hafa so til lagt og eig nad veyke Manneskiu Guds Almætte og hās Dyrd/huad ad er ein auglios og openber Skur godadyrkan/eins og þa þr Heidner Menn til badu þann Vyngud Bachum/ad hann skyllde vardueita þeirra Vyngarda.

Enn

Enn þott nőkrer Snidugler Papistar med kienne nu nőckurn part ad þetta er ecke riett/ þa vilia þeir þo hallda Merg og Grunduelle sinnar Villu/ og segia so / Menn skulu ecke hallda Heilaga fyrer hialpar Menn / Helldur fyrer framestődu Menn og fyrerbidiara.

Med þessu mote ræna þeir Guds Son Jesum Christum sine Dyrd/ huers Pijna Forn og Forþienan bitalingur er fyrer oss/og hann er sa alleina sem settr og til skickadur er af Gude til medalgangara og ædsta Kienne Mans / huers vegna og fyrer huers skullld Gud hefr vissilega lofad ad Bænheyra oss. Þu hefur ongua Lofun af Gude / ad hann vilie Bænheyra þig vegna S. Jacobs/edur nőkurs annars Heilags Mans. Enn Bænen verdur ad skie af riettre tru/ þutad Guds Ord blyder allt eina vppa Guds Son.

Og so sem adur fyrr er sagt/ Med þui Menn kunna ei til Nadarennar ad komast hia Gude an medalgőngu Mans / þui er Sonur Guds settr og skickadur til Arnadar Ords og framestődu og Fyrerbonar og til hins ypparsta Kiennemans/huer ed sig hefur i Forþ kætt a Kroßenum/og er vpp aptur rijsen og lifer eilijflega og situr til hægre Handar synum Himneska Fődur / og bidur alla tijma fyrer őllum Kierstnundum.

Fra þessum Arnadar Manne Jhesu Christo skulum vier ecke lata oss snua i nőckurn mata/ og ecke setia neina Heilaga Menn i hans stad.

Giiij. S. Peturs

S. Petrus og S. Jacobs Kyrna og Forþlem ẽka er ecke Bot nie Bitalingur fyrer oss/ þeir eru og ecke helldur setter og skickader til neins Arnadar Eyds.

Hier ad auk er þad sannarlega satt/ og vel ymhuxanda sem Gud seiger/ Drottenn G[...] þinn skalltu tilbidia og honum einum þiona/ [...]yrer vier tilbidium nockurn hlut sem er osynelegur þa medkiennum vier þar med/ ad hann sie Almattugur/ og siae og vite allra Manna Naudsyniar/ og Hiartnanna Þel og þanka. Huer hann nu til bidur og akallar Heilaga Menn framlidna/ S. Petur S. Aunu edur adra Heilaga/ Sa seme hann til leggur og eignar þeim Gudlegt Almætte/ ad þeir siae og vite allra Manna Hiartu og Hugskot/ Huad ecke er annad en augliost Afgudadyrkan.

Og j slutu Male ad segia/ Riettelegt Bæna akall til Guds/ er su hin ædsta Guds Þionusta/ og skal skie so sem Gud hefur oss kent/ skipad og boded. Og fyrer utann Guds Ord eigum vier eckert nytt Bæna akall ad hafa nie upphuxa. Nu er þad openberlegt/ og augliost/ ad i Ritningu Spamannanna og Postulanna er eckert Dæme/ huar af slijkt Bæna akall til Heilagra framlidenna Manna kunne ad stadfestast. Þar fyrer mattu vera fullviss þar uppa/ Gud vill ecke hafa af oss slijkt Bæna akall til Heilagra Manna/ þad kann og ecke ad standa jafnframt riettre Tru.

Enn hier er merkianda/ Ad annad er þad/

ad lesa

ad lesa og hugleida Historiur og Lijfsøgur
Heilagra Manna/og taka og lata af þeim god
epterdæme Truarinnar og esla a godra Verka
og Manndygda/og þacka Gude/ad hann hef
ur alla Tyma af menlegu Kyne nockra vtual
ed/og hefur openberad sig fyrer þeim/og giefi
ed oss fyrer þa sitt Heilaga Ord/og hefr marg
falldlega hialpad þeim og bænheyrt þa / Og
þar med audsynt/ad hann vill og eitnen bæno
heyra oss og hialpa oss.

Ad hixa so vm Heilaga/þad er harla miøg
nytsamlegt/so sem David opt og ofialldan seig
er i Psalmenum/ Ad hann velie pryssa Guds
Hialp/vppa þad ad adrer akalle Gud og eirn
en/vegsame hann/og af honum bidie og vænte
sier Hialpar og Fulltings.

## Jomfru Mariam skulu Men ecke til bidia nie akalla

Lucas Gudspiallamadur hann skrifar i
fyrsta Cap. Ad þa Høfudeingellen Gabriel
bar Marie Kuediuna/sagde hann a medal ann
ara Orda / Ottast þu ecke Maria / þu hefur
Nad fundid hia Gude. Þetta Ord skulum vier
vandlega merkia/þuiad þad þienar ecke alleina
asta þar til/ad Jomfru Maria feinge Hugg
an þar af i þann Tyma/helldur ad þad sie Vid
vørun vid þeirre hryggelegre hiaguda Dyrkan
sem sijdar meir koma munde a medal Kristena

Manna/fyrer Pauan i Rom og hans Klaustramenn/og hia þeim Papistum er enn nu þenar Dag/þeir ed Mariu giöra ad einum Gude og til leggia henne alla Macht og allt Valld a Himne og a Jördu/so sem ad hefde hun þ af Gude þeiged.

Enn þott Jomfru Maria/ sie blessud yfer allar Kuinnur / og ad eingenn Kuinna hefr nockurn Tyma slyka Nad og slykan Heidur þeinged þa setur Gabriel hana nidur med þessum Ordum/ og giörer hana jafna öllum ödrū Heilögum / þar med ad hann seiger/ Ad huad hun er/ þad sie hun fyrer Nad enn ecke Forþienustu. Nu hlytur Mismunur ad vera / a mille hans sem Nadena giefur/ og hins sem Nadena medtekur.

Sa sem giefur Nad/ hia þeim enum sama skulum vier Nadar leita / enn ecke hia þeim sem þeirrar Nadar er niotande orden. Þetta hafa Meñ i Pauadomenū ei giört/ Þuiad huer Madur hliop til Mariu/ leitande og vonande meire Hialpar hia henne enn hia Herranum Christo. Þuiad so er sunged af henne i Pauadomenum.

Maria mater gratiæ, mater misericordiæ tu nos ab hoste protege, in hora mortis suscipe: Item, ora pro nobis sancta dei genitrix, vt digni efficiamur gratia Christi: Item, In omni tribulatione & angustia, succurre nobis virgo maria.

Ad vier kynnum ad varast slyka Villu og

tangann

fangann Lærdom/ þa merkium vandlega þessa Ord / Maria þu fanst Nad hia Gude. Og lærum oss hier af læra/ ad hallda hana fyrer eina Manneskiu/ huer ed til Nadar er komenn/ enn ecke þad hun skule Nad giefa nie veita/ Þuiad þar til er hennar elskulege Sonur vor Herra Jhesus Christus skickadur/ ad vier leitum Nadar hia honum / og komum til Nadar fyrer hann. So sem Johannes Baptista seger Joh. j. Cap. Vier høfum aller af hans Nægd þeinged Nad fyrer Nad.

## Niðurlag a þessare Grein/
### Vm Bæna akall til Heilagra.

Vor Drottenn Jhesus Christus seger og so/ Matth. xxviij. Cap. Mier er giefenn øll Magt a Himne ꝛ a Jordu. Þar fyrer fared og kienned øllum Þiodum/ ꝛ skijred þær j Nafne Fødur og Sonar / ꝛ Anda Heilags / Og kienned þeim ad hallda allt þad eg hef ydur boded / Og sia/ eg er hia ydur allt til Heimsins Enda.

Af þessare einne Grein er berlega liost/ ad vier eigum ecke ad tilbidia nie akalla framlidna Heilaga Menn. Herrann Christus sialfur krefur einskis af sijnum Kristnum nie heim

ter/ vtan

ter/ vtan ad hallda þad eina sem hann hefur bodid og skipad sínum Lærisueinum so sem þesse Ord hlioda/ Kiennid þeim ad hallda allt þad eg hefe yd ur bodid. Enn i Heilagre Ritningu finst ecke nockurs stadar / ad Christur hafe bifalad sínum Lærisueinum ad læra og predika ad þeir skylldu Framliđna Heilaga Menn akalla nie tilbidia. Herran Christus hn̄ seiger framm vegis/ og lofar ad hann vilie hia oss vera allt til Veralldarennar enda/ þar fyr er þurfum vier ecke ad leita hans med Arnadar Ordum Heilagra Manna/ vier meigum hn̄ finna alla Tyma og i ollum stødum/ Og hañ hefur lofad ad bænheyra oss. S. Pall þar hann bydur Kristnenne ad bidia fyrer Veralldlegu Yfervallde / þa seiger hann so. j. Timoth. ij. Cap.

So aminne eg nu/ ad vier vmfram̄ alla hlute giørū i fyrstu/ Boner/ Bæner/ Fyrerbeidslur og þackargiørder fyrer øllum Mønnū/ Fyrer Kongum og fyrer øllum Yfirbodurū/ vppa þad vier mættum hafa spakt og rosamt Lijfz ferne / i allre Gudrækne og Sidsemi. Þuiad slijkt er gott þar til eirnen þacknæmt fyrer Gude vorum Hialpara/ sa sem vill þad aller Menn hialpest og til Vidurkienningar Sannleiksins komest. Þuiad þar er einn Gud og eirn Medalgangare mille Guds og Manna/ sem er sa Madurenn Jhesus Christus / huer sialfan sig hefur vtgiefed fyrer alla til Endurlausnar so þetta yrde predikad i hans Tyd/ Þar til em

eg Pret

...ar og Þolinle...
... Christo Jesu og lyg... ...
... Tunne og Sannleikanum.

J þessum Ordum vijsar S. Pall oss med sinum Bænum og akalle/alleinasta til Arnad[...] manþins Christum/enn ecke til Framlidnna Helagra Manna. Og til Ephesios. 4. Cap. Seiger hann/ Fyrer Christum høþum vier Tilgang til Fødurſins.

Item/ j. Joh. 4. Cap. Mijn Sonakorn/ Slijkt skrifa eg ydur/vppa þad ad þier syndgist ecke/ Enn ef nøkur syndgast / þa høþum vier Arnadarmann hia Fødurnum Jesum Christum þann Riettlata/og hann er Forlykunenn fyrer vorar Synder/ Og ecke alleinasta fyrer vorar/helldur fyrer alls Heimsins et cet. Hier kienner oss S. Johannes ad Christur sie Arnadar madur og Medalgangare hia þeim Himneska Fødurnum fyrer oss/enn ecke Framlidner Menn Helagier. Christus seiger og einnen Joh. 16. Cap. Sannlega sannlega seige eg ydr/ Ef þier bidied Fødurenn nockurs i mijnu Nafne/þad mun hann giefa ydur. Sem vill þe hann so seigia/ Þier kunned ecke ad standast fyrer mijnum Fødur med ydar godum Verkum og Verdugleikan Enn med þui þier þurfed vid Medalgøngu Mans og Forlikara/og Hæsta Kiennemans sem fyrer ydur bidie / þar fyrer þa komed og flyied hingad til mijn aller þier sem þiader og þreytter erud/og efed þad ecke/ þier þocknist Gude fyrer mijna skulld et ce.

ſydsku[illegible] um vier þad vita/ad [illegible]riſtner Menn/loþa i þeim tiu Bodordu[illegible] og einkum i annarre og þyrſtu Bæn Fader v[illegible] ad þeir ſkule trua a Gud/og hann einn til b[illegible]ia loþa og dyrka/og hönum Þacker giöra/ ſ[illegible] vorium ſönnum einaſta Gude. Þar þyrer ſeig er og Gud i Pſalmenum þimtugaſta / Offra þu Gude Loþgiördenne/og giallð þeim hæſta þyn Heit. Akalla mig i Neydenne þa mun eg Frelſa þig/og þu ſkallt heidra mig.

Hier höþum vier Gudꝭ Bod og ſkipan/ ad vier ſkulum akalla hann. Þar næſt höþum vier hans Fyrerheit/ ad hann vilie Frelſa og hialpa oſſ. Og þad er hans Vilie/ad vier þäck um hönum þyrer hans Velgiörninga.

# Ein Bæn af aull-
## um Heilögum.

Heyr þu Almattugur og Myſkun-ſamur Gud/ Vier þackum þier fyrer alla guddomlega Nad/Giaſku z Gaf ur ſem þu hefur veitt og giefed þijnum Elſkulegum Heilögum, Aſtunnum og Vtuolldum/ fra Heimſins Vpphafe / allt til

allt til þess nu er komed. Og vier bidium þig/ad þu viller og so eirnen giefa oss þyna Nad/og rietta og sanna Tru a þinn sæta Son Jesum Christum / Vppa þad ad vier mættum epter fylgiá þera Postolum i sannre Tru og fullu Tru nadar Trauste til þijn/ og i voru Lijfe og Dauda/ Kristelega epter þijnu Orde ad ganga z lifa/ Fyrer Jesum Christ um vorn Drottenn og Herra Amen.

## Stutt Vtskyring Drottenlegrar Bænar/Fader vor.

J þeirre fyrstu Bænenne (Helgist þitt Nafn) leggium vier fyrer öllum rietttelegum Kiennefedrum/ og i mote öllum villu Mönnum og Vantruudum/ J mote Gydingum/Heid ingium/Tyrkianum og Pauanum / Þulad all er þesser lasta og lyta Guds Heilaga Nafn / og vier bidium ad Gud hann vilie hindra og apstyra þeim/og giefa goda Kiennefedur og Predikara/og vardveita sitt Ord hia oss hreint og omeingad

og Omilldugt / fyrer allre Villu og aullum Vantrunade.

J annare Bæn (Til kome þitt Ryke) þat bidium vier ad Dauðans og Diöfulsins Ryke skule falla og eydast. Þesse Bæn er vyd og breid / þui ad hun afbidur allt Diöfulsins Ryke/og bidur ad Gud hann vilie giöra Enda a þui / og uppbyggia sitt Ryke j oss og öllum Mönnum/ fyrer sitt Ord og sinn Heilaga Anda.

J þridiu Bæninne (Verde þinn Vilie T. e.) bidium vier/ad allra Skiepna Vilie sie hindrađur og fae öngvan Framgang/ sa sem er a mote Guds naadarsamlegum Vilia. Þad er Diöflinum og vondum Mönnum ein olydar leg Bæn/ og hefter og hindrar miög marga Ohlucku, huerre Diöfullenn munde af stad koma og þesse vonde Heimur/ ef ad Menn finde þad ecke so þaslega j mote med þessare Bæn.

J þeirre fiordu Bæn (Vort daglegt Braud gief oss j Dag) bidium vier fyrer ertalldlegu Uppeallde/ fyrer vorum Forelldrum / fyrer Kvinnum og Börnum / Þat bidium vier um Jardarennar Groda/ Mat og Dryck Fæde og Klæde/ Frid og Samþycke/ og allt þad vier þurfum til þessa stundlega Lyfs Uppehelldis / huer j sinne Stett ad Gud þad vilie giefa Lucku og Blessan þar til/ og vardveita oss fyrer allre Ohlucku.

J fimtu Bæn (Fyrergief oss vor Skulld

er so

er so sem vier fyrergiefum vorum Skulld
unautum) Bidium vier/ Ad Gud sie oss Misk
unsamur / og take pra oss vorþienta Reide/og
Refsingar/og strapþe oss ecke vorra Synda ve
gna. Og ad hann vilie giepa oss þa Nad / ad
vier Dag pra Deige mættum betra og bæta
vorn Lifnad/ og hallda oss og hegda epter hans
Vilia. Og a medal annara Mankosta/ Hunde
drum Fyrergiepa hans Misgiörder.

J siettu Bæn (Leid oss ecke j Freistne)
Bidium vier/ Ad Gud hann ville sierdeilis til
Hialpar koma/öllum þeim sem nöckrar Freist
ingar lyda/og læta þa ecke liggia vnder Freist
ingunum/helldur hialpa þeim þar i pra myski
unsamlega/pyrer sitt Ord og sinn Heilaga Anda
og hindra og hamla Diöfulsins Vallde og At
se ninge.

J hinne siöundu Bæn (Helldur frelsa oss
fra Jllu) bid'um vier vm kristelega Framfer
d i þessum Heime/ad Gud vor Drottenn/ hann
villde myskunsamlega burt taka oss ap þessum
Hmdar Dal / og eilyplega giöra oss Sælu
holpna.

Þennen er nu so merkelega alle saman jnne
bunded og paled j Fader vor/ bæde þ sem oss
er til goda / so sem hitt annad þad oss angrer
og þuinger. Vm þetta er harla naudsynlegt /
ad bidia deglega / Þuiad nogar eru Neyder
hier Höndum/ Fyrst almennelega/ Þui næst þ

 sierhuers

sierhuers mans Hwse/ J sierhuers mans Kalle
og Embætte/ Og ecke vantar annad vtan þad/
ad vier druglega og mz fullu trunadar Traust-
giörum vorar Bæner. Þuiad Bod og Skipun
höfũ vier/ad vier skulum bidia / So og Lofi
un og Fyrerheit / ad vier skulum bænheyrd-
er verda. Og vor liufe Lausnare Jesus Christ
ur hann hefur sialfur þennan Bæna Hatt sett
og dicktad / so sem vier siaum i Fader vor.

Nu bliotum vier ad jata og vidurkienna/ad
vier erum aumer Syndarar / og ecke makleger
ad ganga fram fyrer Guds Auglit/og tala vid
hann/ og enn omaklegre ad þa og ödlast nockut
vtn hlut af bönum/og þeta er sanlega satt. En
vppa þad ad vier ecke skulum læta þennan Oc-
verdugleika hindra vore Bæna Akall / þa byd-
ur og skipar Christur hier med liosum Ordũ/
ad vier skulum bidia j sinu Nafne/ Og lofar
þar med/ ad huad vier bidium j hans Nafne/
þad skule oss veitt verda.

Og med þessum Ordum/ fra snydur hann
þessa Guds Pionustugiörd (sem er Bæna akall-
ed) fra öllum Sktepnũ i Heimenũ/og til legg-
ur þ þessare einka personunne/Jesu Christo.
So ad huer su Bæn sem ecke skiedur j Nafni
Jhesu/ þad er eingen Bæn/ og eingen Guds
Pionustugiörd. So sem þa/ þegar einn Munk
bidur Gud vegna Francisci/ eda Dominici/ad
vera sier Nadugenn / og hann vilie akta sin
Verk/ Föstur/Vökur/eda adra Gudþienustu sa
sagta

legra Manna. Slijkt er ecke nefft Bæna akall helldur ad eins onytsamlegt Mungialpr / Pui ad þad er ecke beded i Christi Nafne / helldur i Nafne Francisci Dominici / eda i sialfs eiga alegu Nafne. Eins er hattad Bæna Akalle Hedninganna/ Tyrkia / Gydinga/ allra Papista / Puiad Nafned Jhesu vilia þr ecke hafa til sins Bæna Akalls alleina/helldur nefna þr þar til Mariu/ Pal/ Petur/ og adra Heilaga. Slijkt Akall heyrer Gud ecke. Og þo so skie / ad þeir fae þad þeir vmbidia/ Pa skiedur þad þeim til stærre Skada/ og Fordiörfungar/ Og hefde betur farid/ þeir hefde ecke fenged sijna Bæn.

Enn þeir Riettkristnu bidia ecke i sijnu Nafne/ Puiad þr vita huad og huilijkt Nafn Kienningen gieyrur oss / sem er / Ad vier sieum allt af Natturu Reidennar Börn og Lygarar/ og fyrer skammast þeir sijns Nafns/ ad minnast þess fyrer Gude. Enn med þui þeir vita/ ad Gud hefur er Naduga: og Miskunsama Christe vegna/ og ad þeim er boded og skipad ad bidia i Nafne Jesu/ þad þad sama giörer þa full hugada og diarfa/ Og þott ad þeir finne/ jate og vidurkienne sig seka og synduga vera / þa kunna þeir fram fyrer Gud / vpp lata sinn Munn diarflega / og segia / Elskuleige Himneske Fader/ nu liggur oss Bænum þynum i þessu/nu a hinu ödru / Veittu oss Miskunsamur/ alijtu ecke vorar Synder/ helldur þinn Son Jesum Christum/ i hans Nafne komum

vier nu fram fyrer þig / Þar fyrer heyrdu vora Bæn. Þetta kallast riettiliga ad bidia. Þegar ad Bæna akalled geingur so vt allt til Enda/ i Nafne vors Herra Jhesu Christi/ Þar epter fylger visselega/ ad þ er j Jesu Christo/ Ja/ og Amen.

Þetta atte ad vÿsu ad vppueckia oss/ og huet ia til Bæna akallsins/ Med þui vier heyrum/ ad huad Madur bidr Födurenn i Nafne Christi þad bryst fram/ og lætur ecke af/ fyrr enn þad kiemur fyrer Guds Nadar Stol/ og þar verdr jaa til sagt.

Vppa slijkt Fyrerheit þa seiger Herrann til sinna Lærisueina / Hingad til hafe þier eins skis bedet i mijnu Nafne. Huad þeir höfdu holldlegt Traust a hans synelegre Hieruist og Nalægd/ og huxudu so med sier/ Ad a medan þesse Madur være hia þeim/ þa kynne þa ecke neitt illt ad henda. Soddan huxan hafde og Strijds folk Dauids Konungs/ ad ef hann være i Bardaganum med þeim / þa munde allt vel ganga.

Slijkt Traust er eitt Holldlegt Traust sem sig forlætur vppa synelega Hialp. Enn Gud hann vill/ ad Truen og Bænen vone Hialpar af honum / þo ad hann siaest ecke. Jaa / þa Manne þiker so sem allar Skiepnur sie a mott sier/ lika so sem þa ed Israels Syner stodu vid Hafed Rauda.

Þar fyrer seiger hann so / Hiedan i fra skule þier sialfer bidia / Ydar Bæn skal hropa til

mijn

myn/þo þier slaed mig ecke. Bidied þa munu þier ödlast/so ad ydar Fögnudur sie fullkomieg ur. Vm slykt Bod/og slyka Fyrhalning eigum vier ad huxa/ og læra ad begda oss þar epter. Sorg og Motgang/Neyd og Freistingar vant ar ecke hier i þessu Lyfe. Huer þan girnist nu ad hafa stadfasta fullkomna Glede og sannan Fögnud / og ad komast wr Sorgum og Freistingum/sa same huxe til/ad bidia Gud/so sem Christur bydur hier/og efe ecke/ Ad huers þan bidur i Nafne Christi/ þad mun honum veitast/ so framt sem þad er Gude til Dyrdar/og þm̄ til Sæluhialpar.

Þuiad/þennan Brek og Brest höfum vier aller med oss/so sem S. Pall seiger / Ad vier vitum ecke sialfer öllum stundum / huad oss er fyrer bestu ad bidia vm. So kiemur þad og ad margur bidur ad Gud vilie hialpa honum fra þeirre og þeirre Freistingu / edur þeim og þeim Krankleika/ En þar verdur ecke af þui Þuiad Gud hann sier og veit betur / huad oss er gott og nytsamlegt/helldur enn vier sialfer. S. Pall han bad ad Gud villde hialpa honum fra sinne Freistingu/ Enn huad seiger Christur/ ij. Cor. xij. Cap. Lat þier nægia myna Nad / þuiad minn Kraftur er i Breyskleikanum styrkur og mattugur. Eins kann þad og ad skie a þessu Deige/ ad eg og þu vid villdum giarnan lauser vera vid þann Krankleika / og þa Astrygdu sem a ockur liggur / Enn Gud veit huad oss er nytsamlegast / Þar fyrer lætur han

Hiij. opt

ept Krossenn liggia sem a oss/ annars yrdum vier stærelater og athugalauser.

Þar fyrer geingur su Bænenn undan/ Adur enn vier bidium vm daglegt Brauð/ þa bidium vier ad Guds Vilie ske skie. Og sialfur Christ ur þa ed hann badst fyrer i Grasgardenum þa sagde hann/ Po ei minn / helldur verde Vilie þinn. Eins alltsa eigum vier ad bidia/ og setia oss Guds vilia fyrer Augu/og efa þad ecke/ ad Gud mune vissulega veita oss alle þad sem hans Nafne er til Dyrdar/ enn oss er til Saluhialpar.

Vier høꝛum enn nu annann Brek og Bresi mz oss. Gud hann vill hialpa oss/og gefa oss þad vier bidium i hans Sonar Jesu Christi Nafne/ Þetta er vist og ohætt. Enn þat er eingenn Stund/ Stadur nie Tyme til settur/ huernen hann vill hialpa. Vort eigenlegt skynseme / Hold og Blod laustur oss ecke hualast / iafnsnart sem þad oss þiker þreskast/ og Gud hialpar oss ecke i þann Mata sem vier hugsum / þa þenkium vier ad þad sie vigdilt med oss. Eins er og vm Timann/ Kome ecke hialp epter so margar stund er/ Daga og ar/ þa hugsum vier/ad alldrei vpp þadann mune þar nockud af verda. Þessar suar Freistingar skelfa og veykia miog Truna/ Þar fyrer liggur stor Magt a/ Ad vier hølldum oss hier fastlega vid Guds Ord/ og bidum þeirrar Hialpar sem oss er lofud og heitinn i Nafne Christi / Huenær eda med huerium mote þad fram kiemur/ þar siae hann fyrer/ Þuiat

ad hann

ta og Fyrerbeide / sem vier bódum hier / Sann lega sannlega seige eg ydur / Hvers sem þier bidied Fódurenn i mynu Nafne / þad mun hann gipa ydur.

# Ein önnur Utskyring yfer Fader vor / Skrifud af Philippo Melanthone.

## Fader vor þu sem ert a Himnum.

Fader / Elskulege Fader / þu sem sannarlega ert nalægur þinne kristelegre Kirkiu / og ert hia þynum Bórnum / lijtur a þau / og heyrer þeirra Baner.

## Heilagt verde þitt Nafn.

Fader / Gief þu ad Menneirner medkienne og þekke þig sannan lifanda Gud og Fódur. Gief ad þitt Ord kiennist hreint og omeingad epter hvert Dyrd og Heidur þyns Guddomlega Nafns verde rietteleg og sannarlega kunn og openber. Og ad Menn lære þig i Truńe rietteleg ad þeckia / þig af Hiartans grunne i Neydinne ad akalla / og i Anda og sannleika þier ad þiona.

So til heyrer nu su fyrsta Bænen i Fader vor / þui fyrsta og stærsta Guds Bodorde / ad

 þeim

þeim tiu Bodordum. Þuiad vier bidium / ad Guds Ord/og hreinn Kristelegur Lærdomur varduueitist/ og ad kristeleg Kirkia auchist. Þui ad þetta Ordet NAFN / merker hier sanna Guds Vidurkienning.

## Til kome þitt Rijke.

Þad er/ Vpplys þu oss fyrer þinn Heilaga Anda/og styr oss og stiorna/so ad vier sanlega truum þinu Orde. Vppbyggia þitt Ryke i oss/ so ad vier mættum verda Erfingiar þess eilyfa Lyfs og Rykes.

Þannen hliodar nu hin önnur Bænen/vpp a Andlegt Euangelig/ad Gud villde styra oss og stiorna.

## Verde þinn Vilie so a Jordu sem a Himne.

Þad er/ Gief þu ad aller Menn a Jördu sieu þier hlydner. Gief ad þeir rietter Hirdarar/og Byskupar/Kongar/Höfdingiar/Herrar og aller Valldsmenn/Kiennefedur/Predikarar et ct. so og aller til heyrendur og þeir vnd ergiefnu/ rækte trulega huer einn sitt Kall og Embætte/og sie þier aller hlydnger/ og gange so fram i þeirra Stiett/ad þier þoknist/eins so sem Einglarner a Himnum þocknast þier og eru þier hlydnger.

Þannen inna halda nu þessar þriar Bæner/alla andlega hlute /þa sem Guds Ord og Mikla la Saluhialp ahræra. Nu epterfylgia þær Bæner sem hlyda vppa Lykamlegar

Capit

ad hann hefur þetta Nafn / ad hann kallast Adiutor in opportunitate, einn Hialpare/sa ed j hagkuæmelegan Tyma hialpar. Enn af þui/ad vier erum af Natturunne til miøg lite þolenmoder/þa þiker oss æryd/ad þa og þa sie tymen/og ad Gud þreste opleinge sinne Hialp. Þad er so miked/ So sem ad vissum vier het te Stund og tyma enn Drotten Gud vor sialf= ur. Fyrer þessu skulu vier vakta oss/ Vppa þ ad Truen hun kunne ad standa fast a Guds Fyrerheite/ Þad Gud hann vilie oss lyknsamr vera / vegna Jhesu Christi sins Sonar / og hialpa oss þegar tyme er til.

Þetta er Lærdomur vt af Kristelegre Bæn/ a huørre oss storlega liggur/ a þessum haskas samlega tyma/hafande hier a Jørdu ecke ann= ad Traust. So sem Christur avgsar hier/ þar hann seiger/ Bidied so ad ydar Føgnudr verde fullkomlegur. Þuiad huar ecke er Bæna akall ed til Guds/þar kann eingen Føgnudr/ja einge en fullkomlegur Føgnudur ad vera/helldr hlyt ur þar ad vera Hrygd/Sorg og Angist.

Slykt høfum vier( seiger Marthinus Lu= ther)a þessum Arum reynt optar enn eitt sin. Þuiad hefde vorar Bæner ecke vered/þa hefde Pauen og adrer Tyrannar a skamre stundu af mæd og eydelagt oss. Enn af þui ad Bæna ákalled geingur oaflatanlega/þa siaum vier ad þui meir sem Pauen og adrer Tyrannar æda i gegn Kristelegre Kirkiu þui meir falla þeir. Þar fyrer latum oss hallda fast a vppteknum

þatte/vier huerium Ordid er liþalad mz Predikan/ og Medkienningu/ þar næst sier huer Kristen Madur fyrer sig/med Bæn og Akalle til Guds / med þessum tueimur hlutum helldst Kristeleg Kirkia vid Meg'.

Huer hann nu elskar Kristelega Kirkiu/ og sier giarnan hennar Velferd/ hann huxe vm þ ad hann blyfur þar til ad hielpa/ad hun vie Magt halldist. Þad skiedurecke vtan mz Bæn enne. Nær ed þu bidur/ad þyns Guds Nafn a Himnum verde Heilagt. Ad hns Ryke kom. Ad hns Vilie verde. Og þar a mote/ad Diöfuisins Nafn fae Skam og Last/ad hans Ryke falle/og allur hans Vilie og Asetningur þor hindrist. Þeger þu giörer nu so/þa stendr þu og huor annar Kristin Madur/so sem annar Strids Madur vopnadur i Bardaga og Fylkingu/og hialpar til/ad verndа og veria Kristelega Kirkiu i mote Diöflenum og Heiminū.

Þuiad sierhuer Kristien Madur han er eirn Strids madur/og er i standanda Stride mote Diöflenum/ Fyrst vier/med Predikunar Embættied / þar næst þinet edter med Bæna akallied. Þetta tuent giörer Diöflenū starstu Hiartans Sorg/ ad predika Guds Ord trulega / og aluarlega Gud ad tilbidia. Og skule sa Orin verda steigenn og sigradur / þa hlytur þad ad ske med þessum hætte. Vier vitum og eirnenn ad þetta er þacknæmelegt fyrer Gude vorum Himneska Födur. Þar fyrer skulum vier diarflega bidia/i Nafne Christi/ og trua hans Lof

Rapur.

**Gief oss i Dag vort daglegt Braud.**

Þad er / Gief oss vora Þórf og Lijfsins Næring/ stundlegan Frid / Gudhrædda Yfervalldz Herra/ Luku og Hamingiu i öllum hlutum þessa stundlega Lijfs.

**Fyrer gief oss vorar Skullder / so sem vier fyrer gefū vorum Skulldunautū.**

Þesse Bænen hun vottar/ad i öllu Bænakalle skal Truen vera nälæg/huer ed þui stadfastlega truer / ad vier höfum fyrer giefning Syndanna fyrer Christum/huör Tru ed Christum höndlar og med tekr hann fyrer ein Arfemann og Medalgangara. Ad vier vitum so/ ad vier höfum nu inn i öngan gang til Födursins fyrer hann/og ad vier fyrer hans skulld/ verdum Bæn heyrder.

Og med þessare Bæn medkienner öll Heilög kristeleg Kirkia og aller Heilager/ad þeir hafe enn nu Synder med sier. Item þesse Huggun er hier og so/ Ad med þui Christus sialfur byd ur oss ad bidia um Syndanna fyrergiefning/ þa vill hann efalaust fyrergiefa oss Syndernar.

Þar stendur og hia (So sem vier fyrer giefum vorum Skulldunautum) hier seigest ecke/ad fyrer saker vorrar fyrergiefningar/ skule oss Syndernar fyrergiefnar verda/ Helldur er vor Fyrergiefning so sem eitt Sacrament og hid ytra Teikn / fyrer huert vier verdum ad

minntet

minter og sanproder i þui/ad Gud hann hef ur og fyrergiefed oss og vill fyrergiefa.

## Leid oss ecke i Freistne

Þad er/ Elskulege Fader/ Lat oss eige falla i kungar Freistner. Varduent oss og vernda fyrer þeirre grimlegre og hrædelegre Slægd Diöfulsins/ so ad vier komum ecke i Villudom og Blindleika/ i sarra Sorg og Vantru/og ein uni so þyita Nad og Myskun.

## Helldur Frelsa oss fra Illu.

Þetta er eitt almennelegt Nidurlag allra Bænanna / og bidur vm Endurlausn af öllū Veykleika/Syndum/Eymdum og Sorgum þess arar Veralldar. Snögt ad seigia/ Vier bidium ad vier verdum leyster og frelsader/ af öllum Sorgum og Eymdum þessa Vallualltа og auma Lyfs / og ad oss veitt og giefed verde Eilyft Riettlæte og Þad eilyfa Lyfed/Amen.

So kienner oss nu þesse edla dyrmæta Bæn/ FADER VOR/hueria Herran Christus sialf ur hefur dicktad/ med sinum Ordum/huernenn vier eigum ad bidia bæde vm Andlega og ver alldlega goda Hlute. Huernenn vier skulum bidia fyrer allre Kristnenne / Fyrer Predikun ar Embættenu/og Heilagre almennelegre Kirk iu/ Fyrer veralldlegu Vallde og almennelegum Fride / Fyrer nalægum og tilkomande Naud synium.

Fuiad eingenn kann meз Hugskote ad hyggia/ og Ordum ad skyra/ huersu reidur beiskur og

gramur

gramur Andskotenn er j giegn Christo og hans Kirkiu/og huerssu oseigianlega mykla Magt/ Snilleika/ Slægd og Vielar hann brukar þar til/ og situr vm̄ oss/ad villa oss og suikia/med sals Kienningum og allskyns Villum og Van trunade/so ad hann gete blindad oss og i Van tru leidt/og sueked med Yperuarpe Helgedoms med rangre Guds Pionustugiord / Hræsne og Lygum/ Ad hann yperpalle oss og leide i Sorg og Angist / og Ørpolenmæde / Og ap lislum Neista giörer hann opt. store loganda Bæl / so ad hann pære oss i alla Hiartans Sorg og Angist.

Þar pyrer nær vier lesum þessa Virmann ola Bæn/þa skulum vier hapa open Augun / og alita þa myklu Haskasemd/ ap hrædelegre Alusru/ Reide og Grimd Diöpulsins/huar mz hann vidleitar/ad spilla bæde andlegre Stior nan og Veralldlegre. Þar a mote skulum vier og hugleida/þa omælelegu Guds Gæsku og Vel giörning ad hann þeirre huörutueggiu Valld/ stiorn vid Magt helldur et ct. Vppa þ ad vier larum ad bidia ap Hiarta/og i sierhuerria Bæn j Fader vor / jnne pela og lykia allar vor/ ar Naudsyniar. So a ein Kristeleg Trua ad idka sig / Og þetta er ein riett/ Heilög og Gude þægeleg Pionustugiörd.

So hepur Spamadurenn Zacharias/ xij. Cape stuilega og med pærri Ordum jnnlukt og sam tengt/allan þann Fiesiod sem vier pengid hös um pyrer Christum og Euangeliū/og þa riettu Guds

Guds Þionustu/ þar hann so seiger/ Eg mun vthella yfer Hws Dauids Anda Nadar og Bænar. Anda Nadarennar kallar hann/ þann sem vier fyrer Christum höfum med trú/ og oss giörer fullvissa þar vppa/ ad vier erum Guds Börn/ og ad Gud hafe þa oss myskunsamur / og elske oss j sinum Syne Christo. So þrætt seiur nu Spamadurenn fyrst. huernen vier verdum riettlaater fyrer Gude. Þar næst seiger hann huert ad sie þad allra hægelegasta Verk Gude synt/ og su ædsta Guds Þionusta / Sem er Bæna akallid / huad Bænarennar Ande er þ/ ad bidia og akalla Gud af Hiarta j aullum Motgange. og Gude þacker ad giöra/ og Guds Ord diarfliga ad medkienna fyrer Heimenum.

Enn med þui Christeleg Bæn/ hun er eckert annad/ enn ad akalla og bidia Gud og honum þacker ad giöra/ þa eigum vier ad vita/ ad alla Tyma ber oss Gude ad þacka/ fyrer alla hans Guddomliga Velgiörninga / huad daglega medteckum vier og þiggium af honum otelian lega Velgiörninga/ sem vier ollum opt ecke sialf er þat af. Þui daglega erum vier stodder j stor um Voda/ af Dioflinum til/ ef ad Gud verndar oss ecke og vardueiter.

So seiger S. Pall / Fyrer alla hlute þa skulu þier ætid Gude þacker giöra. Og 2. Cor. 1. Cap. Þa bydur hann ad marger ske bidia fyrer sier/ vppa þ ad marger giöre Gude

þacker

þakar/fyrer þad ad Gud hafe hañ Vardueitt.
Gefande þar med til Kienndar/ad slyk Guds
Þionusta hun være alla Tyma ad vera hia þeim
Kristnu/sem er Bæna kalled.

## Nu epter fylgia nockrar sier-
## ligar Greiner Heilagrar Skriptar
### vtskyrdar/til Truarstyrkingar/God
### fysum/og veykū Samuiskum.

### Joh. j. Cap.

# Sia/ Þar er þad Lambed Guds/ sem burt tekur Heimsins Synder.

Þesse Predikan S. Johañis Skyr-
era hun er næsta stutt/eñ er þo miøg merkeleg/
þuiad hier afmaler hañ Herrans Jhesu Christi
Dauda og Pijnu. Enn ef vier vilium sundur
lida þessa Malsgrein/þa er hier margt miøg
merkelegt jnne folged/einkum þad sem afrar
er Gagn og nytsemd Pijnuñar Herrans Christi
ef vier af riettre Tru hana til vor tokum.

Johannes nefner Herran Christum Lamb
fyrer

fyrer þann skulld/ ad hann atte ad vera Forn-færdur. Þuiad þær Forner sem i gamla Testamentinu voru offradar/ Kyr og Kalfar/ Naut og Sauder/ þad var ecki ein Figura og Fyrermyndan þess eina og retta Offurs vors Herra Jhesu Christi/ huer ed sitt Lijf og sinn Lijkama/ skyllde i Forn fœra fyrer Synder Veralldarennar/ og fyrer sitt Blod skyllde oss hreina giora af Syndenum. Þad kan Guds Ord/ hier lætur Johannes sier nægia/ þar med ed hann kenner huersu ad Christus hafi muste eiga ad lyda Pijnu og Dauda.

Enn hann kenner ecke Christum alleinasta Lamb/ helldur LAMB GUDS/ Huar med hann vill auglysa/ ad Christus sie sodan ein Forn edur Offur/ huert Gud hefur sialfur tilsett og skickad/ huert Gud er þo allra þægelegasta. Og med þessu Orde vill hann vpp retta vora Tru/ se ad vier tokum til vor slijkt Offur/ og villium/ ad fyrer þad hefur Gud er af sinne oseigianlegre Myskunsemd ætlat sier/ ad hialpa oss aumum Monnum. Og nu aust þad er so skied/ þa meigum vier fullkomlega þad vita og þui trua/ ad fyrer þessa Guds Sonar Fornfæring/ þa er þad allt fullkomlega endad og framkomed/ sem þesse Fornfæring atte ad vt retta og giora/ Sem er þa ad burt taka Heims sins Synder.

Veralldarinnar Synder kallar hann ecke alleinasta ad eins allt Ranglæte/ og allskyns Ogudlegt athæfe/ huert þesse Heimur er drecktur/ og med

ollum

ie foken/ Huad allt Gude misliikar/ og huer ad hann verdur til Reide reittur. Allt þetta hefur Gud ab skiærre Mꜳo teked ab Heimenu og lagt þad vppa sinn Son. Hann hlaut ad bitala og borga þar fyrer/ so ad vier mætt um verda lauser og liduger fra Skulld og pijnu.

Huer hann vill nu riettelga hugleida Pijnu ina Herrans Christi/ hann skal ecke alleina hera edur tala þar vm̄. huersu ad Christus ha᷑ var/ Heidingium j hendur feingenn/ Hudstrijkt ur og a Krossenn festur er ec. Þetta er Pijnung ar Historian/ huerja aller eiga vita/ og opt ad heyra. En þetta er ecke nog/ Vier hliotum og rnefi ad vita þad og trua þui (so sem Job. seiger hier) ad Christus hafe slijkt vorra Synda vegna lided/ Og ad Gud hafe þar vppa han̄ lagt / og ad hann hafe þar med allre Polen made bored/ og bitalad fyrer þar/ Vppa þad ad þegar vier jatum og medkiennum oss fyrer auma fataka Syndara / og ad hafa Gud styggt og til Reide reitt/ þa skulum vier ecke falla j Orvilnan / helldur hugga oss j Pijnu og Dauda vors Lausnara Jesu Christi/ og treysta vppa þa fullnadar Bot/ og þa Bitaling sem hann hefur giört fyrer oss / Og fullkomlega eigna oss þetta og til segga/ Huad Job hann taler ecke so/ ad Christur sie ab Gude sendur/ til ad verda Offur fyrer eins mans Synd edur annars/ helldur fyrer allar Verolldarinnar Synder/ þad er/ Fyrer Synder allra Manna j Vere

J. ölldenne

alldenne/ þeir ed a hann trua og treysta / og þessa Offurs vilia niotande verda. Nu af þui ad vier erum aumer Syndarar/og erum i Verølldenne/þa a eirn og sierhuer ad taka þetta til syn/sa sem vill sæluholpenn verda/og trua þui ad þetta sie allt skied hans vegna.

## Predikun Spamansins Esaie/ liij. Cap. af Pyninne Christi.

Þegar þeir Heiløgu Spamenn gieta Pijnunnar Christi/og spaa fyrer um hana/þa giøra þe þad so skinilega og med þeim Ordum/ Enn huernen ad vier eigum þessa Pijnu ad akta og alyta/ og huert Not vier af henne skulum hreppa/ þar tala þeir margt og mikid vm/ so sem Esai as giører hier/þar hann seiger.

Sannarlega bar hann vorn Siukdom/og vorum Hrygdum hlod han vpp a sig. Vier hielldum hann fyrer þann sem plaagadur var/ og af Gude slegen. Enn fyrer vorra Misgiorda saker er hann særdur/ og fyrer vorra Synda sak er er han lemstradur. Hegningen hun liggur a honum/vppa þad vier hefdum Friden/ & fyrer hans Beniar erum vier

Heilbrigder

## Heilbrigder ordner.

Þetta er riett fögur og miøg huggunarsamleg Passiu Predikun/huert ed vel heyrdt j þad nyia Testamentited. Og þetta er so liosslega talad/ad eingenn Postule kunne ad tala þad betur. Þviad/ ad Christur hann er pijndr/plagadur/særdur og slegenn/ þad skiedur (seiger hann) allt þess vegna/ Ad hann hefur vtgiefed sig fyrer oss/og hefur a sig tekid vorn siukdom og vorar Hrygder/so ad vier skylldum ödlast Friden og verda heilbrigder.

Spamadurenn giörer Christum til eins Læknara/og kienner oss / ad ef vier girnust ad fa Frid/og verda læknader/þad finnum vier ecke annarstadar enn hia Herranum Christo / Hann hefr alleina hia sier enn eingen annar þa Lækning/sem er hans Pijna og Daude.

Þar fyrer / Nær vier heyrum edur lesum þ Pijnunnar Historiu / Huörso hryggelega ad Gydinglar og Heydingiar foru med Herran Christum/ þa eigum vier iafnan / vid huerta eina Grein/þetta ad leggia til / Seigiande / Þad er vorra vegna skied/ ad vier skylldum þar vel finna og hafa Lækning/ecke i mote holldlegum Siukdome/helldur i mote Syndenne og þeim eilijfa Dauda / ad vier yrdum þar i fra leyster og frelsader. Nær vier so hugsum og skodum/ Þa hugleidum vier riettelega og oss til Saluhialpar Pijnuna Christi.

Blodid Jesu Christi hreinsar oss af

Þad er skrifad/af hinū Heilaga Bernhardo ad eitt sinn hann tok til ad hugleida og mz storre Hiartans Aluøru ad grunda Pijnuna vors Herra Jesu Christi/og þa stróngu Guds Reide ad yferuega og Aluøru i gegn Syndenne/med þui ad huerke Menn nie Einglar / og eingen Skiepna a Himne nie Jördu kunne þar fyrer Boot og Betaling ad giöra / var ecke annad Raad enn þetta / Guds hinn allra hiartkiærasste Sonur / hañ hlaut med sinu Blode og synū Dauda þar fyrer ad betala/so sem Gud sialfur hañ seiger/ Esa. liij. Cap. Vegna

Synda mijns Folks hef eg slegid hñ.

Þa ed S. Bernhardus hugleidde nu þetta / vard hann skielfdur fiell i Efasemd og omeigen og mællte so.

Eg ætlade hier være eingen Vode a ferdum fyrer Manneskiuñe/ Eg skyniade ecker af þm Eilyfa ouiabreytelega Guds Vrskurdar dome/ sem yfer mig var geingen vegna Syndanna / Allt þar til eg sa og hugleidde/huersu þ Guds einka Sonur/hann geingur fram/sier aumur a mier / giefur sig i Daudann / og vnder þann Doms vrskurd Guds Rietlætis/sem yfer mig var giefenn og geingenn/ Auui Auui nu skynia eg/ad ecke er hier Gaman a ferdum/þar sem sodann Aluara er höfd i frame.

Þesse

Þesse Ord hins Sæla Bernhardi/ skylldi huør Madur Kristen i Minne leggia / og þar af Læra/ ad ottast Gud / og vakta sig fyrer Syndenne / og hrædast Guds Reide. Þad er audvelldlegt/ i Syndena ad falla / enn vpp ad rysa/og fra Syndenne ad komast/ þad er torf velldara/og þad kann ecke ad skie med ødrum hætte / enn fyrer Pijnuna Herrans Christi / Hun ein er/enn eckert annad su Syndalæt og Lækning / sem oss er giefen / til Lækningar vorra Synda Sára.

Þar næst er þesse Hugleiding Christi Pijnu/og hans Dauda/ein Lækning i mote Daudanum/ Þviad huør hann itter hui/ ad Guds Sonur sie vorra Synda vegna Dáenn/og hafe med sijnu Blode þær burt þvegid / og fyrer þær bitalad/ sa some finnur fullkomligann Samuiskunnar Fágnud sier i Hiarta / hvad ist huørke Synd nie Dauda / Þad Christur henn hafe fyrer Syndernar bitalad/og ad Gud han vilie hans vegna/vera til Fiids vid hann/og ecke framar meir minnast a hans Synder. Soddan huggun er hier i þessum Ordum/Blod ed Christi hreinsar oss af øllum Syndum. Þettessum vier og so læta oss til Hiarta ganga/og vita og hallda fullkomliga fyrer satt/ad vier/ vier erum þeir enu sómu sem Guds Son hafa so Pynt og vt leiked/ Vorar Synder hafa þ giørt þviad þar stendur so/ Vegna vorra mis-giørninga er hann Sardur/ og vegna

Jsa. vorra

vorra Synda er hann slegen.

Þar fyrer nær vier hugleidum / hvørsu ad Jarngaddar geingu i gegnum Christi Hendur/ þa skulū vier so visseliga trua / og þ hallda/ ad þad se vor vond Verk.

Allt um vier hans Þyrne Krounu/ þa skulum vier vita/ þad eru vorar vondar Huxaner og Hugrenniger. Og þar sem einn Þyrner stack Herrann Christum/ þa ætte oss ad stinga/ hundrad þusund / eilijflega. Þar Naglar þryr geignum ganga hans Hendur og Fætur/ þa ætu oss otelianleger Gaddar / i gegnum Hendur og Fætur iekner verda eilijflega. Hvad vissulega þa mun alla fr te og henda/ sem ad lifa ænn Idrener / og ecke fa Not af Christi Pijnu. Þar fyrer giórum Idran og Yfirbot / og lætum oss þessa Mæligrein S. Bernhardi optlega hafa j Minne og Hiarta. Ad hier se ecke Skiemtun edur Gaman a ferdum / Med þui ad Guds Sonur hann hlaut hier til ad kosta / sijnu Hiartablode / ef vier skilldum fra Syndenne/ Reide Guds/ Diöflenum / og fra eilijfum Dauda verda leyster og Frelsader. Og med þui ad Christur hefur fyrer sitt Blod oss leyst af öllum Syndum/ Diöfle Dauda og Helvijte/ þa hæfer ad vier sieū honum þacklater/ fyrer haleitan Velgiörning / og leggium kapp a ad þiona honum/ i Heilagleik og Riettlæte alla vora Lijfdaga/ so sem Zach. seiger i sijnum Lofsöng/ Luc. j. Cap.

Eger

Eg er Vpprisan og Lijfed / Hver
hann truer a mig/ hann mun lifa/ þo ad
hann andest/ Og huer hann lifer z tru
er a mig/ sa mun ecke deyia eilijflega /
Johan. xj. Cap.

Þesse Orden Christi eru sa sanne Rodde /
og bad rietta Huggunde/sem huer kristen Mad-
ur/einkum a sinne Daudans stundu/skyllde sier
vnder Hǫfud leggia/og þar vpp a/med riettu
te Tru/burt fara og Sofna ef þessum Heime/
Sosem og marger Gudhræddter Menn giǫrt
hafa.

Enn med þessum Ordum vill Herrann Jhe-
sus so miked sagt hafa / Martha / lat þu ad
þecktia mig riettelega / Þu ætlar ad eg sie eirn
mykell Spamadur ad eins/ og meinar eg hafe
ei meire Magt enn Elias og Eliseus. Eg er
Sonur hins Lifanda Guds/ einn Herra yfer
Lyfe og Dauda/ Helias og Heliseus hafa fyr-
er minn Krapt / giǫrt þessa Jardteikner/ Eg
er sa sem Eckiunnar Syne j Sarepta Lopted
gaf / og þeirrar Kuinnu Son i Sunem / vpp
vakte af Dauda / Og a sydsta Deige munu
aller þeir ed i Grǫfunum liggia / heyra
mijna Rǫdd og verda lifende/og eg segie þier/
þinn Broder er ecke Daudur/ Þuiad þeir sem
a mig trua/ þeim er so hattad/ad þott þeir sie
framlidner/ þa lifa þeir þo/og þr sem lifa/ þr
luta alldrei ad deyia/ Martha truer þu þessu?

## Eg er Vppriſan z Lifed.

Fyrſt hugleidum þetta Ordkorn Eg em/ þad kiennet oſſ ad renna vorum truar Augũ alleina vppa Chriſtum/ og hafa hañ og hallda fyrer hann riettã einka Naudhialpara/ eñ öngvann annann/ Þuiad fyrer vtan Chriſtum/ þa er ecke annad enn Daude og Fyrerdæming. Vier höfum einn Gud ſem þar hialpar/ og eiñ Drottenn/ huer ed af Daudanum frelſa kann/. Pſal. lxviij. Hann mun Daudan vpp ſuelgia eilijfleg a / Eſa. xxv. Cap. Af Hende Daudans vil eg frelſa þa. Daude/ eg ſk verda þinn Bane Oſe. xiij. Cap.

## Vppriſan og Lijfed.

Hier hafa bæde Lifendur og Dauder flora Huggun/ Þeim Lifǫndu til huggunar ſeiger hann Eg er Lijfed/ Þeim Framlidnu Eg em Vppriſan/ Þar fyrer huert vier lifũ/ þa lifũ vier Drottne/ Eda vier deyiũ / þa deyiũ vier Drottne / Og huört ſem vier lifum eda deyium þa erum vier Drottins.

Med tuennu mote er Chriſtus vor Vppriſa/ ſo ſem þad vier erum i tuöfalldan Dauda fallner/ Syndarennar vegna / ſem er Holldſins Daude og Andar Daude/ J fra þeſſu huörtueggia leyſer og frelſar Chriſtus oſſ.

Fyrſt Frelſar hann oſſ fra þeim andlega Daudanum / So ſem S. Pall hann ſeiger/ Eph. ij. Cap. Vier ſem vorum Dauder j Syndunum/

Syndunum/erum nu ordner Lifande i Christo og med hönum setter medal Himneskra. Colloss. j. Cap. Vier erum Frelsader af Myrkrannar valldi/ og setter jnn i Ryke Jesu Christi/ i huerium vier höfum Endurlausnina/ fyrer hans Blod/ sem er Syndanna fyrergiefning. Coloss. iij. Cap. Ef þier erud vpp vakter med Christo/ þa leited þess sem þar vppe er / þar Christur situr til hægre Handar Guds et cet.

Þesse Vpprisa fra þinn eilyfa Andardauda/ hun skiedur vid oss i þeirre Heilögu Skyrn / þar dreiper Christur yfer oss synu Blode/ þar hreinsar hann öss af öllum vorum Syndum / þar giörer hann oss Lifande / alyka eins sem Fuglen Pellicanus hann giörer vid syna Vnga/ þuiad þetta segist ad vera hans Art og Edle / nær Höggormuren hefr droped Vnga hans / þa ryfur hann sig a hol / og dreiper Blodenu a Vngana / þa verda þeir aptur lifande/ et cet. J Skirninne vthellir hann Anda synum yfer oss Ryksuglege / Tit. iij. Cap. Þar med verda vorar daudar Saaler vppuakter og lifande.

Slyk Vpprisa af Andarennar Dauda/ hun skied: og dagliga/ þegar madur af Hiarta jdrast Syndanna riettelega / so sem þar stendur vm þann Fortapada Son/ Þesse minn Son var daudur/ enn sia hann er nu orden lifande aptur. Þetta er nu su fyrra Vpprisan / vm huerja stendur Apoca. xx. Cap. Sall er

 sa sem

sa sem hefur Hlut i þessare Vpprisu/a hönum mun sa annar Dauden (það er sa eilyfe Daude) önga Mage hafa.

Þui næst er Christi og einnen vor Vpprisa/ Það er/ Hann mun vpp reisa og vekia oss fra Hollðlegum stundlegum Dauda / Þuiað sa Stund kiemur/ að aller þeir sem i Gröfunum liggia/ þeir munu heyra Rödd Guds Sonar/ og verda lifande epter/ þeir til Lyfsins Vpprisu sem gott hafa giört/ Enn þeir sem illt hafa giört til Domsins Vpprisu/ Joh. v. Cap.

## Lyfed.

Med sama hætte/ þa er og Christur vort Lyf med tuennu mote. Fyrst höfum vier af hönum þetta Hollðlega og stundlega Lyf/ og það er sa sem oss lyfa lætur/ so lenge sem hann vill/ so sem stendur Deut. xxx. Cap Hann er vort Lyf / og lengd Daga vorra. Og S. Pall/ Act. xvij. Cap. J hönu lyfum vier og hrærum vier.

Þar næst höfum vier i Christo hið eilyfa Lyf/ So sem hann seiger Joh. x. Cap. Myner Sauder heyra myna Rödd og þeir fylgia mier epter/og eg gief þeim það eilyfa Lyf/ Item seiger Joh. so j. Cap. J hönu var Lyfed. Og S. Petrus seiger Joh. vj. Cap. Huort skulum vier fara? þu hefur Ordinn Eilyfs Lyfs.

## Huer hann truer a mig.

Að trua a Drottenn Jhesum Christum/ það er/að

er/ad hallda hann fyrer Guds Son og Heimsins Lausnara/og hugga sig vid hans Pijnu og Dauda/og bæde i Lyfenu og so i Daudanum þar vppa fullkomlega ad treysta/ad vier høppum fyrer hans Frammefsiødu og Fyrerbon einn nadugan Gud og Fødur/so og Fyrergiefning Syndanna og þad eilyfa Lyfed/epter þui sem þar stendur i Barnalærdome Chatechismo.
Eg true ad Jesus Christus sie sannur Gud af Fødurnum gieten fyrer allar allder / og lyka sannur Madur Fæddur af Mariu Meyiu/ ad hann sie minn Drotten / Sem mig Glatadan og Fyrerdæmdan Mann hefur afrekad/ endurleyst og Frelsad fra øllum Syndum/ Daudanum og Diøfulsins Vallde/ Ecke med Gulle edur Silfre/helldur med synu Heilaga og dyrmæta Blode / og synum sakleusa Dauda og Pynu/so ad eg verde hans eigenlegur/ og lifi vnder hans Vallde i hans Ryke/honum þione i eilyfu Riettlæte/Meinleyse og Sæluhialp / lyka sem hann er sialfur af Dauda vpprisen / Lifer og Ryker ad eilyfu/ Þetta eru visseleg Sannindi.

Merke þeir einfølldu ad þesse fióger Ord/ heyra til riettre Tru.

i Ad vier þeckium Christum riettelega/og vitum og kunnum alla hans Lyfsøgu / vm hans Fæding/Dauda og Pynu/Vpprisu og Vppstigning/so sem þad allt stendur i Credo.

ij Ad vier truum þui/ad þad allt sie sannarlega satt.

iij Ad

